# I.

## Frumvarp

til opins brèfs um breytíng á þeim tíma, sem á Íslandi þarf til að eignast sveit, eptir 6. grein í reglugjörðinni 8. Janúar 1834.

### 1. grein.

Sá fimm ára tími, er menn skyldu hafa verið samfleytt í einum hrepp, til að eignast þar sveit, eptir 6. grein í reglugjörðinni 8. Janúar 1834, um stjórn þá og meðferð, er fyrst um sinn ber við að hafa á ómagamálum, skal hèðan af vera aukinn til 10 ára.

### 2. grein.

Þó skulu allir þeir, sem 1. Júlí 18.. (eða 1. Janúar 18..) hafa verið svo 5 ár í einum hrepp, að nægilegt sè eptir reglugjörð þeirri, sem áður var á minnzt, eiga þar sveit, ef þeir verða þurfandi, nema þeir hafi síðar verið 10 ár í öðrum hrepp áður þeir urðu þurfamenn, og eignast þar sveit.

### 3. grein.

Að öðru leiti skal hin áðurnefnda reglugjörð standa óröskuð að öllu og um allt það, er þar segir um sveitarrèttindi, hversu þeirra megi afla.

# Ástæður

fyrir frumvarpi til opins brèfs um breytíng á þeim tíma, sem á Íslandi þarf til að eignast sveit, eptir 6. grein í reglugjörðinni 8. Jan. 1834.

Til alþíngis, sem haldið var árið 1845, komu bænarskrár frá fleiri alþíngismönnum um, að 6. grein reglugjörðarinnar 8. Jan. 1834, er ákveður 5 ára dvöl í einum hrepp til þess maður geti orðið þar sveitlægur, yrði breytt þannig, að til þessa skyldi þurfa 10 eða 20 ára dvöl í hreppnum.

Voru færðar til fyrir því þær ástæður: að margur dvelur 5ta árið í þeim hrepp, þar sem hann hefir verið á efri árum sínum og því orðið þar að minnstum notum; og að 5 ára tíminn spillir eindrægni og góðri reglu í hreppnum, og veldur ójöfnum álögum og ágreiníngi milli hreppanna innbyrðis.

Eptir að nefnd var sett til að íhuga mál þetta á alþíngi, og það síðan var rædt á 2ur fundum, gaf alþíng um það bænarskrá, og studdist hún að nokkru leiti við ástæður þær, er áður var getið, en einkum var þar tekið fram, að sveitir þær, er liggja að sjó, verða fyrir ofmikilli byrði eptir reglum þeim, sem nú eru í gyldi, er menn tíðum leita þángað ofan úr sveitum, af því þeim veitir hægra að vinna þar fyrir sèr og sínum.

Fyrir þá sök var þess beðizt:

1. í einu hljóði, að áratölu þeirri, sem tiltekin er í reglugjörð 8. Jan. 1834 6. gr. mætti verða breytt;
2. með 14 atkvæðum móti 9, að eptirleiðis skuli þurfa 10 ára dvöl samfleytt í einum hrepp til að eignast þar sveit, en að öðru leiti verði farið eptir ákvörðunum þeim, sem nákvæmar eru tilteknar í áðurnefndri grein; og
3. að breytíng þessi, samkvæmt því sem ákveðið er í áminnstri grein reglugjörðarinnar, snerti ekki þá, sem eru orðnir sveitlægir í einum hrepp, þegar 5 ára tímanum verður breytt með nýjum lögum.

Konúngur bauð kanselliinu að segja álit sitt um málið, og gjörði það svo, en skrifaðist fyrst á um það við hið konúnglega rentukammer. Gat kanselliið þess, meðal annars, að þar sem nefndarmenn á alþíngi höfðu haft svo mikið á móti reglugjörðinni og einkum ákvörðunum þeim í 6. grein, sem

áður er áminnzt, var álit nefndarmanna um það efni þegar leiðrètt í meðferð málsins á alþíngi, bæði af mörgum þíngmönnum, þeim er kunnugir voru, og einnig af konúngsfulltrúanum; en að því leiti nefndin sèrílagi hafði getið þess, að ágreiníngi um ómagamálefni hefði opt verið skotið til kansellíisins úrlausnar, kvað kansellíið þessu einganveginn vera svo farið. Því þótti það og efasamt, hvort færðar hefðu verið til nægar ástæður fyrir því, að breytíng sú, er stúngið var uppá, væri æskileg.

Kansellíið kvað það helzt vera á móti því, að tiltekið yrði lángt tímabil, að af því mundi leiða, að ménn mundi lángtum optar lenda á fæðíngarhrepp, enn þegar tímabilið er látið vera skemmra, og mundi það valda mörgum óhagnaði, bæði fyrir þá sök, að við þyrfti að hafa lánga og örðuga flutnínga á þurfamönnum, og líka lángar og efasamar rannsóknir, og eins vegna þess, að þurfamaður mundi komast af með minni hjálp í þeim hrepp, þar sem hann hefir dvalið í mörg ár, heldurenn í fæðíngarhreppnum, er hann máske ekki hefir komið þar í 50 ár, og á þar eingan kunníngja, enda væri og líklegt, að sá hreppur mundi verða ófúsari á að veita honum móttöku, heldurenn hreppur sá, er hann um lángan tíma hefir dvalið í, að lofa honum að vera.

Það voru einkum þessar athugasemdir, sem teknar voru til greina þegar 5 ára tími var ákveðinn í reglugjörð þeirri, er áður er nefnd, og þótti því óvíst, hvort breytíng þeirri, er alþíng hafði stúngið uppá, mundi fylgja sanngirni sú, er svo mikið var gjört úr bæði í nefndinni og á þínginu: að maður ætti að vera sveitlægur í þeim hrepp, sem hann hefir gjört einna mest gagn í um æfi sína. Ekki mundi heldur, með því að taka til lángan tíma, verða komizt hjá, að brögðum yrði beitt til þess að koma þeim af sèr, sem menn kynni að vera hræddir um að mundu verða sveitlægir á hreppnum, heldur mundu menn, þegar tíminn er lángur, og komið er að því, að hann sè útrunninn, gjöra sèr því meira far um að koma þurfamanni af sèr, sem hann þá er orðinn meira lasburða enn áður, og hefir fyrir fleirum að sjá, o. s. frv. En að hinu leitinu eru þegar 5 ár svo lángt tímabil, að ekki er ætlanda, að þeim, sem ætlar að setjast að á einum stað, verði þegar, er hann kemur þángað, bægt frá að fá þar húsnæði og atvinnu.

Sú eina ástæða, er færð var til meðmælis 10 ára hreppnum

og tekin var af ásigkomulagi landsins, var sú, að annars mundi ofþýngja á sjóplázunum vegna þess, að fjöldi fólks, sem ekki geta haldizt við í sveit, flytja að sjó, og hafa þar ofanaf fyrir sèr í nokkur ár, en geta þó ekki síðan komizt þar af hjálparlaust. En þrátt fyrir það, yrði það þó einganveginn sanngjarnt hvernig sem á stendur, að þeir, sem í 5 ár hafa ofanaf fyrir sèr við sjó, skyldi verða reknir á þann hrepp, sem þeir fyrir mörgum árum síðan hafa dvalið í um 10 ár, eða jafnvel á fæðíngarhreppinn. Auk þessa var þess við meðferð málsins getið, að komast mætti hjá vandkvæðum þessum í sjóplázunum ef þess væri nákvæmlega gætt, að farið væri eptir 21. gr. í reglugjörðinni, og var því einganveginn mótmælt. En væri nú svo, að menn í sjóhreppunum notuðu ekki lagaboð þau, sem gefin eru út til að koma í veg fyrir að ofmargir setjist þar að af þesskáttar mönnum, sem ekki hafa nóg fyrir sig að leggja, vegna þess menn vildu hafa notin af vinnu þeirra, virðist það og sanngjarnt, að hreppar þessir sjái fyrir þeim, ef þeir, þegar 5 ára tími er liðinn, verða þurfandi.

Þó nú kansellíið þannig ekki gæti fullkomlega sannfærzt um, að frumvarp það, er alþíng hafði gjört, mundi breyta til batnaðar því, sem nú er, og þó virðast mætti, að ofmikið hafi verið gjört úr einstöku vandkvæðum, sem reglur þær, er nú eru í gildi um sveitar rèttindi, eins og hverjar aðrar reglur, hafa í för með sèr, varð tèð stjórnarráð þó, eins og hið konúnglega rentukammer, að viðurkenna, að það væri náttúrlegt, í öðru eins máli og þessu, að farið væri að áliti alþíngis, þegar ekki órækar ástæður mælti í móti, og áleit kansellíið því rèttast, að búa til lagafrumvarp samkvæmt því, og leggja fyrir þíngið.

Viðvíkjandi 2. atriði bænarskrárinnar ber þess einúngis að geta, að nauðsyn muni á, til að komast hjá öllum efa og ágreiníngi, að tekinn sè til viss frestur fyrir allt land, þá 5 ára dvöl ekki leingur nægi til að afla sveitarrèttinda í einum hrepp; þótti mega miða tímabil þetta við 1. Júlí eða 1. Jan. eptir, nær vanta má að lagaboð þetta verði almenníngi kunnugt.

Samkvæmt því, sem að framan er talið, var samið frumvarp til opins brèfs um breytíng á þeim tíma, sem á Íslandi þarf til að eignast sveit, eptir 6. grein í reglugjörðinni 8. Jan. 1834, og var það þann 17. Marts 1847 allramildilegast samþykkt, einsog það nú verður lagt undir álit alþíngis.

---

# II.

## Frumvarp

tilskipunar um nýjan jarðadýrleika á Íslandi.

---

### 1. grein.

Á landi Voru Íslandi skal setja nýjan dýrleik á allar jarðir sem fyrst má verða.

### 2. grein.

Til að meta jarðirnar sem við þarf til dýrleikans skal sýslumaður, með ráði prests og hinna beztu hreppsbænda, nefna til 3 menn fyrir hvern hrepp. Sýslumaður skal því ráða, í hverjum hrepp upp skuli hefja að meta jarðirnar, og skulu það þar starfa þeir menn 3, er til þess voru nefndir. En þá er lokið er hinum fyrsta hrepp, skulu 5 menn meta jarðirnar í hverjum hinna hreppanna, en það eru þeir menn, er í þeim hrepp voru til nefndir og tveir af þeim mönnum, er áður hafa verið að slíku starfi í hinum næstu hreppum þar í kríng, og sem sýslumaður álítur bezt til þess hæfa.

Sýslumenn skulu vera fyrir störfum þeirra, en eiga þó ekki atkvæðisrètt um virðínguna.

### 3. grein.

Virðíngarmenn skulu meta hverja jörð til peníngaverðs, að því, sem slíkar jarðir verða seldar eptir gæðum sínum.

### 4. grein.

Rentukammer Vort skal skipa fyrir um það, hvernig fara skuli með virðíngar jarðanna, mótmæli þeirra, er hlut eiga í,

og rannsókn virðínganna í hverri sýslu, og hvernig á endanum skuli setja dýrleik á hverja jörð.

### 5. grein.

Sýslumenn skulu hafa 3 rbd. fyrir dag hvern, meðan þeir eru að virðíngum jarðanna og rannsóknum virðínganna, en virðíngarmenn og rannsóknarmenn 1 rbd. Skulu þeir ekki önnur laun hafa fyrir starfa sinn, nè annað endurgjald fyrir ferðakostnað.

### 6. grein.

Allan kostnað, sem af þessu efni leiðir, skal fyrst greiða úr jarðabókarsjóði Íslands. En síðar mun það ákveðið með konúnglegri tilskipun, hvernig endurgjaldinu skuli jafna á jarðirnar.

---

# Ástæður

## fyrir frumvarpi til tilskipunar um nýjan jarðadýrleika á Íslandi.

Formaður embættismannanefndar þeirrar, er konúngsfulltrúinn á alþíngi, kammerherra, stiptamtmaður Bardenfleth, samkvæmt konúngsúrskurði, dags: 23 Apr: 1845, setti þann 6. Aug. s. á., og sem meðal annars átti að rannsaka og síðan rita frumvarp um, hvernig koma mætti betra skipulagi á skattgjaldslögin á Íslandi, sendi, þá er tèð nefnd í haust er var hafði lokið störfum sínum, rentukammerinu álitsskjal það, sem meiri hluti hennar hafði samið í áðurnefndu máli, ásamt ágreiníngsatkvæði frá einum af nefndarmönnum.

Þareð rentukammerið, er átti að fara með mál þetta, átti, að boði konúngs, að segja álit sitt um bænarskrá, er komin var frá alþíngi um rýmkað verzlunarfrelsi á Íslandi, voru þessi 2 mál teingd saman, vegna þess að skatta þá, er kynnu að leiða af rýmkuðu verzlunarfrelsi, verður að taka til greina þegar breyta á hinum almennu skattgjaldslögum.

Allir nefndarmenn höfðu samt verið á eitt sáttir um það, að nokkurn hluta af skattgjaldi því sem nú er, ætti, þó skattgjaldslögunum yrði breytt, að leggja á jarðirnar, þarámóti

kom þeim ekki öllum ásamt um, hversu stór sá hluti skattgjaldsins skyldi vera. Auk þessa kom þeim öllum saman um, að, ef þetta ætti að framkvæma, þyrfti nýtt jarðamat á Íslandi. Rentukammerið var einnig samdóma í þessu, og var því samið lagafrumvarp um þetta efni, til að leggja fyrir alþíng það er nú skal halda.

Þegar tèð frumvarp var samið, var það haft fyrir augum, að jarðadýrleikinn á Íslandi yfirhöfuð er svo misjafn, að ekki er að hugsa til að lagfæra hann með því, að taka af ójöfnuðinn í einstöku sýslum eða hèruðum, þar svo getur á staðið á sumum stöðum, að jarðadýrleikinn, jafnvel í heilli sýslu, kann stundum að vera helmíngi hærri enn í annari, eða jafnvel meira á stöku stað, og verður því við hið nýja jarðamat alls ekki farið eptir jarðadýrleika þeim, sem nú er.

Þar sem nú þannig verður að hugsa fyrir, að búa til nýja jarðabók frá rótum fyrir Ísland, þá er það viðurkennt af öllum, að það leiði óumflýjanlega af ásigkomulagi landsins, að ekki sè að hugsa til, að meta nokkra jörð eptir sjálfum landsgæðum þannig, að tiltekin verði viss jörð til fyrirmyndar, og miðað við hana aflamegin og gæði annara jarða, því fyrst og fremst væri aðferð sú óhafandi sakir örðugleika þeirra, sem eru á að fá hæfilega menn til þessa starfa, og auk þessa mundi, þó þessu væri öðruvísi varið, gánga til þess fjarska mikill tími og kostnaður, vegna víðlendis jarðanna og annars ásigkomulags þeirra.

Nú mætti að sönnu útvega skýrslur um, hvað ein jörð gefur af sèr, eða hefir gefið af sèr að fornu lagi, eða um afrakstur hennar að fornu og nýju, og kann það þó opt að veita örðugt, en fyrir það veit maður þó ekki verð jarðarinnar svo gjörla, að á því megi byggja skuldsetníng hennar.

Til að setja nýjan dýrleik á jarðirnar á Íslandi virðist því ekki verða höfð önnur aðferð enn sú, að láta meta þær til peníngaverðs af skynsömum mönnum, sem þekkja vel til og hafa verið leingi í þeim sveitum, þar sem jarðirnar liggja, og eru því nákunnugir bæði aflamegni þeirra og öllum gæðum og annmörkum er þeim fylgja, og skyldi þeim, ef þá stöku sinnum kynni að bresta nauðsynlega þekkíng, vera heimilt, að kalla til ráðaneytis þá menn, er vænta má að geti gefið skýrslur þær, er viðþarf.

Nefnd sú, er áður var getið, var einnig á því máli, að sú

einasta aðferð, sem höfð yrði við jarðamat á Íslandi án afarmikils kostnaðar og tímaspillis, væri, að láta jarðirnar meta af nákunnugum mönnum.

Hafði og nefndin tilgreint reglur nokkrar, er fylgja mætti við jarðamatnínguna, og voru reglur þessar, að áliti rentukammersins, yfir höfuð að tala vel til fallnar.

Þarámóti virtist, að nefndinni hefði tekizt miður að ákveða grundvallarreglurnar fyrir sjálfri skuldsetníngunni, þarsem hún ekki hafði ákveðið neitt um, hversu mikið ætti að gjöra úr þeim einstöku atriðum, sem jarðarverðið er metið eptir, þegar þeim er jafnað saman bæði hverju við annað og við jörð þá, sem tekin er til fyrirmyndar, enda er það ei heldur svo hægt, þarsem eingin þvílík jörð er til; en allt þetta hafði nefndin falið virðíngarmönnum á vald; en á hinn bóginn hafði hún þó ætlazt til, að virðíngarmenn ætti að skuldsetja jarðirnar samkvæmt mati því, er þeir áttu að gjöra.

Þarsem nú ýmsir menn eiga að meta dýrleik jarðanna á ýmsum stöðum, er það bert, að ekki yrði viðhafður sami mælikvarði allstaðar við matið. Að sönnu hèlt nefndin, að mönnum væri það innprentað, hverja jörð ætti að taka til fyrirmyndar, en nefndin er þó eflaust hèr á raungum vegi, því þetta geta menn ekki vitað, nema með því, að jafna saman einstaka jörðum, er liggja ekki leingra hver frá annari enn í sama hrepp, hèraði, eða, í mesta lagi, sömu sýslu.

Með því nú jarðadýrleikinn um lángan tíma, í mörg hundruð ár, hefir verið svo gagn-ólíkur í ýmsum bygðarlögum, þá leiðir af því, að eptir öllu öðru verður að fara þegar velja á jörð til fyrirmyndar á einum stað enn á öðrum. Þarsem nú nefndin hefir ætlazt til, að virðíngarmenn skyldi fylgja þeirri reglu: að skuldsetníngin með eingu móti ætti að vera í því innifalin, að halda sömu hundraðatölu og híngaðtil, eða að jafna henni öðruvísi niður, annaðhvort á einstakar sveitir eða heilar sýslur, heldur ætti að hækka hundraðatalið yfirhöfuð í þeim sveitum eða hèruðum landsins, þarsem skuldsetníngin híngaðtil hefði verið of lág, en aptur á móti mínka það þar, sem hún hefir verið of há, — þá mundi af reglu þessari einúngis leiða, að ójöfnuðurinn á skuldsetníngunni yrði tekinn af í einstöku hèruðum, en ekki milli hèraðanna sjálfra innbyrðis.

Til þess nú að koma jöfnuði á, er það öldúngis nauðsynlegt, þegar setja á nýjan jarðadýrleik á ymsum stöðum af

ymsum mönnum, þeim er kunnugir eru, að finna þvílíka stærð eður mælikvarða fyrir matinu, sem vænta má að þeir þekki allir. Mælikvarði þessi getur einginn annar verið enn peníngaverð jarðanna í kaupum og sölum eptir ásigkomulagi þeirra sjálfra, þar svo má ráð fyrir gjöra, að ekki sè sá mismunur á peníngaverði á ýmsum stöðum á Íslandi, að það geti truflað þann jöfnuð á jarðamatinu sem á því er bygður. Það virðist því rèttast, að koma nýjum jarðadýrleik á á Íslandi með því móti, að kunnugir menn væri látnir meta allar jarðeignir til peníngaverðs, og þóttist rentukammerið þess fullvíst, ekki að eins, að jarðamat þetta mundi koma meira jöfnuði á skuldsetníng jarðanna enn híngaðtil hefir verið, heldur og einnig verða hæfilegur mælikvarði fyrir verði eignanna.

Viðvíkjandi aðferð þeirri, er samkvæmt grundvallarreglum þessum ætti við að hafa við tèð virðíngarstörf, hefir það verið tekið til yfirvegunar í rentukammerinu, hvort ekki mætti fara að því á þann hátt, er nú segir:

Svo snemma vors 184.., sem unnt er, skyldi sýslumaður með ráði prests og hinna beztu hreppsbænda nefna til 3 menn til að meta allar jarðir er þar liggja, hver sem þær á.

Skyldu þeir einkum til starfa þessa velja þá menn, sem annaðhvort eru eða hafa verið hreppstjórar. Menn þessir skyldu vinna eið fyrir sýslumanni, að leysa starf þetta af hendi eptir beztu vitund og samvizku.

Sýslumenn skyldu því ráða, í hvaða hrepp byrja skuli að meta jarðirnar, og eiga þá að því að starfa þeir 3 menn, er til voru nefndir.

En þá lokið er virðíngargjörð í hinum fyrsta hrepp, skyldu 5 menn meta jarðirnar í hverjum hinna hreppanna, en það eru þeir 3 virðíngarmenn, er í þeim hrepp voru tilnefndir, og 2 af þeim mönnum, sem verið hafa að virðíngu áður í hinum næstu hreppum þar í kríng, og sem sýslumaður álítur bezt til þessa hæfa.

Virðíngarmenn ættu að meta sèrhverja jörð í hreppnum út af fyrir sig til peníngaverðs þess, er hún, eptir gæðum sínum, hefir í kaupum og sölum, og skyldi í erindisbrèfi þeirra nákvæmar tiltaka aðferð þá, er við skyldi hafa.

Nú liggja hjáleigur undir jörð nokkra, en hafa þó ekki

landamerki sèrílagi, þá skal þær meta í einu lagi með jörð þeirri, er þær liggja undir.

Sýslumenn skyldu stjórna virðíngargjörðunum og leiðbeina virðíngarmönnum í öllu er þartil heyrir, en eiga þó ekki atkvæðisrètt um virðínguna. Allt það sem fram fer við virðínguna eiga þeir að bóka í 2 gjörðabækur og skyldi amtmaður löggilda þær. Skyldi í aðra þeirra bóka allt það, er gjörist við jarðamatið, en í hina verð það, er hver jörð er metin til. Skal sýslumaður ásamt virðíngarmönnum rita nafn sitt undir bækur þessar, þegar virðíngunni er lokið í einum hrepp. Prestar mætti að sönnu vera viðstaddir jarðamatið til ráðaneytis, en eiga þó ekki atkvæðisrètt. Svo skyldi og virðíngarmönnum heimilt, að kalla til hvern þann búanda mann í hreppnum, er þykir geta gefið skýrslu um málið.

Sýslumenn skyldu gæta þess, að virðíngargjörðunum yrði flýtt svo sem verða mætti, og að þeim, þá þeim er lokið í einum hrepp, verði haldið áfram svo fljótt sem verður í öðrum hrepp.

Þegar virðíng væri lokið í einum hrepp, ætti sýslumaður að láta taka 2 eptirrit af gjörðabók þeirri, er verð jarðanna stendur í, og síðan afhenda presti annað af þessum eptirritum en hitt hreppstjóra, og ætti þau svo, til eptirsjónar öllum þeim er hlut eiga að máli, að liggja hjá presti og hreppstjóra að minnsta kosti í heilan mánuð eptir að þau eru send þeim, og sjálfsagt til Júlí-mánaðar útgaungu. Þyki þá nokkrum jörð, sem hann á með, ránglega metin, skal hann kæra það fyrir sýslumanni, og rita um það skrá, og færa rök til, og á hann, ef það skal til greina taka, hafa gjört það áður áminnzt tímabil er útrunnið.

Til að rannsaka áðurnefndar virðíngagjörðir, ætti sýslumaður ásamt prófasti að nefna til 5 af þeim mönnum, sem unnið hafa að tèðum starfa þar í sýslu, og skal hann kveða menn þá til fundar einn hinn fyrsta dag í Aug. mán. á hentugum stað. Menn þessir ættu að sverja sýslumanni sama eið og áður er sagt um virðíngarmennina. Skyldu þeir ekki að eins leiðrètta villur þær, er á kynni að hafa orðið við matið, heldur og dæma um aðfinníngar þær, sem fram eru komnar gegn virðíngarverði jarðanna, og ætti sýslumaður að stjórna gjörðum þeirra og leiðbeina þeim, en þó ekki hafa atkvæðisrètt við úrskurðinn. Ef nokkur af þessum mönnum áður hef-

ir átt þátt í virðíngu jarðar þeirrar, sem þræta er um, yrði hann að hverfa frá meðan úr þrætunni er skorið og svo einn af hinum er sýslumaður tekur til; verða þá hinir 3 að leggja úrskurð á málið.

Þegar þannig væri lokið rannsókn virðíngarinnar, ættu sýslumenn tafarlaust að senda áðurnefndar gjörðabækur hlutaðeiganda amtmanni, en hann aptur rentukammeri, ásamt athugasemdum þeim, er honum þykir þurfa. Yrði því viðkomið, ætti hann að gjöra það með haustskipum sama ár, eða að öðrulagi með póstskipi hið næsta ár. Rentukammerið ætti þvínæst að láta rannsaka gjörðabækurnar, og þætti virðíngargjörðin yfirhöfuð sæmilega af hendi leyst, ætti að leggja saman penínga upphæð þá, sem allar jarðeignir í landinu eru metnar til, og skipta því næst upphæð þessari með hundraðatali því, er þætti mátulegt fyrir skuldsetníng alls landsins, og mætti eptir því finna dýrleik sèrhverrar jarðar. Þætti þarámót virðíngargjörðir fyrir einstaka sýslur ekki nógu vel af hendi leystar, ætti rentukammerið að sjá um, að bætt yrði úr brestum þeim áður nýr dýrleiki er settur á jarðir á Íslandi.

Viðvíkjandi einstöku atriðum í aðferð þeirri, sem við á að hafa við hið nýja jarðamat, er athuganda:

Rentukammerið hèlt, að nefna ætti til 5 menn í hverjum hrepp, til að meta jarðirnar til dýrleika, og einnig 5 menn til að rannsaka á eptir virðínguna. Þarámóti hafði nefndin stúngið uppá, að sýslumaður og 6 menn með honum, er til þess væru kjörnir, ætti bæði að meta jarðirnar í hverjum hrepp og endurskoða virðíngargjörðirnar, skyldi sýslumaður stjórna verkum og þaraðauki eiga atkvæðisrètt við virðíngarnar og við rannsóknar-úrskurðina. Að því leiti frumvarp nefndarinnar hnè að því, að sýslumenn skyldi stjórna verkum við hvorutveggi störfin, þótti rentukammerinu þetta mikið vel tilfallið. En þarsem þeim var ætlaður atkvæðisrèttur bæði við hina upphaflegu virðíngu, og við endurskoðun hennar, þá ætti þeir með því móti að dæma um sín eigin störf; fyrir þá sök þótti rentukammerinu það rèttast, að þeim væri ekki veittur atkvæðisrèttur um störf þau, sem þegar voru nefnd. En af þessu leiðir aptur, að ekki tjáir að setja 6 virðíngar- og rannsóknar-menn, heldur verður að standa á stöku, til þess skorið verði úr þegar menn greinir á, og þótti rentukammerinu að 5 mundi nægja.

Í erindisbrèfi því, er gefa ætti virðíngarmönnum til vegleiðslu þá, er þeir eiga að meta jarðirnar til peníngaverðs, virðist ekki eiga að tilgreina mjög smásmuglegar ákvarðanir, er virðíngarmenn með því hæglega kynni að leiðast á afvegu, en vænta má, að aðgjörðir þeirra yrði áreiðanlegri, væri þeir látnir sjálfráðir um matið á jarðarverðinu. Aðalreglan, er gefin yrði í tèðu erindisbrèfi fyrir virðíngunni, mundi verða sú: að virðíngarmenn skyldu meta jörðina til þess verðs, er vænta má að jörðin, eptir öllu hennar ásigkomulagi, hafi í kaupum og sölum, án tillits til þeirra kríngumstæðna, sem einúngis um stundarsakir geta ollað því, að verð jarðarinnar hækkar eða lækkar. Auk þessa mætti benda virðíngarmönnum til við jarðamatið að taka til greina:

a) Ásigkomulag jarðarinnar, bæði túns, eingja og beitilands, þannig, að ekki að eins sè haft tillit til tölu fènaðar þess, er framfleyta má á jörðunni, heldur og í hvaða standi hann er eptir landsgæðum jarðarinnar;
b) ágóða þann, er hafa má af æðarfugla- og öðru varpi, selveiði, fiskveiði og dýraveiði, rekum, skógi, mótaki, o. s. frv.
c) kostnað þann, er hafa þarf til að hagnýta jörðina, þar til má telja, það sem geingur til að varna hættulegum fjallskriðum eða jarðfalli, ágángi af ám eða sjó, sandfoki og þesskonar.

Þarámóti ætti að vara virðíngarmenn við, að taka til greina:

a) peníngshald það, sem nú er á jörðunni, ef það ekki samsvarar því, er vænta má að jörðin, með venjulegri hirðíng, geti framfleytt í meðal-ári;
b) ágóða þann, er jörðin að eins getur gefið með feykilegum tilkostnaði, eða þegar hún er stunduð með stakri kunnáttu og snild, sem ekki má ætlazt til hjá bændastèttinni yfirhöfuð í atvinnuvegum hennar.
c) Það stærra eða minna verð, sem jörðin kann að hafa sem stendur, vegna þess hún er sameinuð annari jörð, eða vegna þess byggíngarskilmálar þeir, er nú eru á henni, eru annaðhvort úr hófi strángir eða óvenjulega linir; og
d) ásigkomulag húsa þeirra, er nú eru á jörðinni.

Þareð prestarnir, vegna kunnugleika og vitsmuna þeirra, optast mundi geta leiðbeint virðíngarmönnum og látið í tè

ýmsar upplýsíngar, væri æskilegt, að þeir væru viðstaddir virðínguna, þá er því verður viðkomið. Rentukammerið hèlt samt ekki að menn ættu að gjöra sèr neitt sèrlegt far um að taka presta til virðíngarmanna, því að sönnu eiga þeir ekki beinlínis hlut að máli um virðínguna, þar fyrir því mun verða sèð, þegar nýr jarðadýrleiki verður settur, að kirkjur og einstakir menn, þeir er taka tíundir uppí embættislaun sín, fyrir embættistíma þeirra, haldi tekjum sínum óskertum. En þar þeir þó eru skattheimtumenn, kynni það samt að vera þeim óþægilegt, að verða kvaddir til sem virðíngarmenn. Það sem hèr er tilgreint um, hvern þátt prestar eigi að hafa í virðíngargjörðunum, er samkvæmt uppástúngu nefndarinnar. Þó hafði nefndin farið framá í uppástúngu sinni, að prestar ætti, væntanlega sem skattheimtumenn, að vera skyldir til, ef svo kynni til að bera, að þeir stöku sinnum kynni að vera óánægðir með matið, að bera fram ritaða mótmælis-skrá með rökum fyrir mótmælum sínum, og skyldi það bóka; skyldi og aðrir hlutaðeigendur á sama hátt vera skyldir að bera fram mótmæli sín, ef nokkur eru. En með því prestarnir, einsog áður er á vikið, varla verða álitnir beinlínis viðriðnir jarðavirðíngarnar, enn þótt þeir sèu skattheimtumenn, þótti mega setja þá í sömu röð og aðra hlutaðeigendur. Svo hèlt og rentukammerið, að það mundi trufla og leingja um of aðgjörðirnar, ef hlutaðeigendum væri leyft að bóka aðfinníngar sínar í gjörðabókina.

En til þess þeim þó gæfist færi á, að frambera mótmæli sín gegn mati jarðar þeirrar, er þeir eiga með, þótti rentukammerinu hæfa, að virðíngargjörðirnar yrði gjörðar öllum kunnar með þeim hætti, er áður er greint; gæti hlutaðeigendur þá feingið mátulegan frest til umhugsunar og til að frambera aðfinníngar sínar gegn virðíngunni.

---

Rentukammerinu þótti ekki hæfa, að láta smáatriði þau, sem hèr eru talin, viðvíkjandi aðferð þeirri, er við skal hafa við jarðamatið, koma fram í frumvarpi því, er leggja á fyrir alþíng; og heldur að tilgreina þau í erindisbrèfum virðíngarmanna enn í almennum lagaboðum; var og þannig aðfarið, þá hinn nýi jarðadýrleiki var búinn til í Danmörku. En þó nú svo virðist, að þetta ætti ekki að leggja fyrir alþíng til

þess það skyldi láta í ljósi um það allraþegnsamlegast álit, þótti samt æskilegt, að alþíng, er svo vel þekkir til hvernig á stendur í raun og veru, feingi færi á, ef nauðsyn þykir, að gjöra athugasemdir þessu viðvíkjandi í álitsskjali því, er það á að semja um frumvarpið; hèlt rentukammerið því, að geta mætti áðurnefndra athugasemda í ástæðum þeim fyrir frumvarpinu, er leggja ætti fyrir þíngið, þó svo, að einúngis væri gefið til kynna, að það hefði komið til yfirvegunar í rentukammerinu, hvort ekki mætti koma jarðamatinu fyrir á þann hátt, sem áður er sagt, þar rentukammerið hlaut að áskilja sèr, þá er það hefði nákvæmar rannsakað þetta vandamál, að mega stínga uppá stöku breytíngum á því, sem að framan er talið, og svo, þegar alþíng hefði kveðið upp álit sitt um hinar almennu grundvallarreglur fyrir jarðamatinu, er fyrir það verða lagðar, að útlista málið allt fyrir Hans Hátign Konúnginum. Samþykkti og konúngur þessa uppástúngu rentukammersins.

Viðvíkjandi einstökum greinum frumvarpsins er athugandi:

## um 1tu, 2ra og 3ju grein.

Í 1tu grein er ákveðið, að setja skuli nýjan dýrleik á allar jarðir á Íslandi sem fyrst verða má. Þvínæst eru í 2ari og 3ju gr. tilgreindar 2 aðalreglur fyrir jarðavirðíngunni: að eptir 2. gr., eiga nákunnugir menn að virða jarðirnar, og eptir 3. gr. á að meta þær til peníngaverðs.

## um 4ðu grein.

Þess er áður getið, að ekki þótti hæfa í sjálfu lagafrumvarpinu að ákveða neitt um aðferð þá, er við skyldi hafa við jarðamatið og endurskoðun þess, er það þótti rèttara, að tilgreina þetta í erindisbrèfum virðíngarmanna, þó virtist mega geta þess í frumvarpinu, að fastar reglur skyldi verða ákveðnar um, hvernig þessu ætti að koma fyrir.

## um 5tu grein.

Stærð tæripenínga þeirra, sem hèr eru nefndir, er tekin eptir uppástúngu nefndarinnar; hafði hún, til þess að komast hjá ágreiníngi um sanngirni ferðakostnaðar, stúngið uppá slíkum dagpeníngum, er hún hèlt mundi nægja til að gjöra hlutaðeigendur skaðlausa, þó ekki feingi þeir borgaðan ferða-

kostnað að auki. Og varð rentukammerið að fallast á uppástúngu þessa.

Þar sem sýslumönnum eru ætlaðir meiri dagpeníngar enn hinum, er að virðíngunum standa, kemur það til af því, að þeir verða að ferðast svo miklu leingri veg, og hafa með sèr fylgdarmann og gjörðabækur, o. s. frv.

---

# III.

## Frumvarp

### til veiðilaga á Íslandi.

---

### 1. grein.

Á Íslandi skulu hèðan í frá jarðeigendur einir eiga dýraveiði og fugla, nema öðruvísi sè á kveðið í tilskipun þessari. Svo skulu og veiði-ítök þau, er menn hafa feingið að lögum fyrir utan landareign sína, standa óröskuð að öllu.

Nú eiga fleiri jörð saman, og er henni skipt í parta milli þeirra eptir merkjum, þá er svo um veiði á hverjum parti, sem heil jörð væri. En ef ekki er skipt jörðu eptir merkjum, þá er öllum eigendum veiði jafnheimil á þeirri jörð, nema þeir hafi gjört annan samníng sín í milli, og skal hann þó eigi leingur standa, enn þeir eiga jörð saman.

### 2. grein.

Á afrèttum, sem fleiri eiga saman, ber veiði þeim mönnum, sem heimilisfastir eru í sveitum þeim, er afrètt eiga. Á almenníngum er veiði öllum mönnum jafnheimil.

### 3. grein.

Á landi skulu veiði ráða rètt landamerki jarðar hverrar. Ef jörð liggur að sjó, á eigandi veiði á haf út, 60 faðma frá stórstraumsfjörumáli. Nú liggja eyjar eða hólmar undir jörð, þá skal mæla lóðhelgi jarðar á sama hátt frá landi og jafnt í allar áttir frá eyjum og hólmum. Ef jarðir þær eða eyjar eða hólmar, sem ekki er einn eigandi að, liggja tveim megin við firði eða víkur eða sund, og eru ekki hundrað faðma tólfrætt í milli, þá á hver jarðeigandi veiði út á miðjan fjörðinn eða víkina eða sundið.

### 4. grein.

Einginn jarðeigandi má selja af hendi veiðirètt sinn, nema hann selji landið um leið, og ekki má hann ljá neinum veiðina, nema ábúanda einum. Nú byggir maður jörð, þá skal hann eiga kost á, að áskilja sjálfum sèr veiðina með berum orðum. En ef hann áskilur sèr ekki veiðina skýlauslega, eignast ábúandi alla þá veiði, sem tilskipun þessi veitir jarðeiganda. Má ábúandi ekki ljá neinum veiði þá, en sèr má hann láta aðra veiða og einkum heimamenn sína.

Ef fleiri eru ábúendur á einni jörð, skal svo fara um veiði, meðan ábúð þeirra stendur, sem fyrir er mælt í 1. grein, þá er fleiri eiga jörð saman.

### 5. grein.

Nú drepur maður dýr eða fugla, eða veiðir með einhverjum hætti í annars manns landi, þar sem hann á ekki veiði, þá veiðir hann landeiganda, og skal hann hafa skaða sinn að öllu bættan, eptir því sem skynsamir menn meta og óvilhallir. Sá skal skaða bæta, er skaða gjörði, og sektast hann þar á ofan um hálfan ríkisdal eða meir, allt að 10 ríkisdölum, eptir því sem á stendur, og skal það þá mestu ráða, ef hann hefir brotið optar, enn um sinn.

Nú beiðist maður þess, að skaði sè metinn, þá skal hinn seki bæta honum kostnað þann, sem af því leiðir, nema hann sanni, að hann hafi þegar, áður skaði væri metinn, boðið jafnmiklar bætur og þær, er síðar verða á kveðnar.

### 6. grein.

Ef maður er á lóð sinni og skýtur þaðan dýr eða fugla, sem í annars manns veiðilandi eru, eða drepur með öðrum hætti, þá er sem hann hefði veidt í annars manns landi. Sama liggur við ef sá maður, sem veiði á, særir dýr eða fugla á sínu landi, og eltir í annars manns land, eða fer þángað, sem hann á ekki veiði, til að sækja dýr eða fugla, er þar gefast upp.

### 7. grein.

Birni má hver maður elta og veiða hvar sem hann finnur, þótt eigi hafi hann leyfi jarðeiganda til, og á sá björn, er fyrst kemur banasári á hann. En sá er þar á veiði, og þeir

menn, er að veiði bjarnarins voru, skulu ekki hafa nema endurgjald fyrir aðstoð sína.

## 8. grein.

Um refaveiði er það leyft, að vinna gren í annars manns landi og drepa bæði refi þá, er þar eru, og yrðlínga þeirra með hverjum hætti sem unnt er, ef hreppstjóra þykir nauðsyn til bera. Vilji maður leggja refaboga á annars manns landi, eða gjöra þar refagildrur eða skothús til að skjóta þaðan refi, skal hann segja til ábúanda, og er hann skyldur til að leggja á samþykki sitt, nema hann kjósi heldur að eyða sjálfur refum í landi sínu með slíkum hætti. En ef hann synjar leyfis og vinnur þó ekkert að, til að eyða refunum, og óvilhallir menn meta svo, að hann geti eigi beðið talsverðan skaða af refaveiði þeirri, er til var stofnað, þá er hann sekur um 2 rd. og skyldur til að þola, að hinn gjöri veiðivèlar þær, er nú var getið.

## 9. grein.

Sýslumenn skulu hvert ár á manntalsþíngum ótilkvaddir og ókeypis friðhelga öll þau æðarfugla eggver, sem nú eru. Vilji nokkur upp taka nýtt æðarfugla eggver, og skynsömum mönnum og óvilhöllum sýnist það vel til fallið, skal hann segja sýslumanni til, en hann skal lýsa friðhelgi varpsins á næstu manntalsþíngum, ef hinn hefir gjört nokkur sýnileg nývirki til, og síðan árlega.

## 10. grein.

Á slíkan hátt skal friðhelga eggver annara fugla, ef skynsömum mönnum og óvilhöllum sýnast þau einkar arðmikil.

## 11. grein.

Einginn má nokkurstaðar á Íslandi drepa æðarfugl, á sjó eða landi, á sinni jörð eða annara, með skotum eða hundum eða netum eða nokkrum öðrum hætti. Brjóti nokkur af ásettu ráði hèr í mót, skal hann gjalda í sjóð hreppsins 48 sk. fyrir hvern fugl, sem drepinn er, og þar á ofan sektir eptir 5. 12. 13. eða 14. grein, eptir því sem á stendur, og skaða bætur eptir því sem óvilhallir menn meta.

## 12. grein.

Frá aprílmánaðar lokum til 1. dags Agústmánaðar má eingInn maður leggja hrognkelsanet eða önnur veiðinet nær eggveri annars manns friðhelgu, enn 2 hundruð faðma tólfræð sè þángað á báðar hliðar og á sjó út frá grynnra hálsi netanna að stórstraumsfjörumáli. Ef á móti þessu banni er brotið, má eigandi eggversins taka net upp, en láta skal hann þau laus við hinn seka, er hann hefir goldið sekt sína eptir 5. grein, og skal sekt ekki vera minni enn 1rd. í hvert skipti, og skaðabætur að auk eptir óvilhallra manna áliti, og umstángskaup fyrir upptöku netanna.

## 13. grein.

Æðarfuglanet þau, er höfð hafa verið á stöku stöðum, skal einginn maður á Íslandi hèðan í frá nota. En ef hann leggur, þá eru þau upptæk, hvar sem þau hittast, og eignast sveitarsjóðurinn þau. Hver, sem þau leggur í sínu landi eða annara til æðarfuglaveiði, sektast í fyrsta sinn eptir 5 grein, og ekki minna, enn um 2 rd.; þar á ofan geldur hann sekt eptir 11. grein fyrir hvern æðarfugl, sem drepinn er, og skaðabætur eptir því sem óvilhallir menn meta. En ef hann brýtur optar enn um sinn, og verður hann sekur um, þá skal tvöfalda sektina eptir 5. grein, og skal hún þó aldrei meiri verða enn 32 rd.

## 14. grein.

Frá aprílmánaðarlokum til 1. dags Agústmánaðar má einginn, nema nauðsyn beri til, skjóta úr fallbyssu nær friðhelgu æðarfugla eggveri, enn í hálfrar mílu fjarlægð, nè úr annari byssu nær, enn fjórðúngur mílu sè til eggvers. Nú skýtur hann, þá sekst hann einum ríkisdal fyrir hvert skot, en tvöfalt ef skotið er í hinu friðhelga eggveri, eða svo nærri, að 2 hundruð faðma tólfræð sèu til eggvers þar sem skemmst er. Það er og auðvitað, að sektir liggja við eptir 11. grein, ef æðarfugl er drepinn af ásetníngi með þeim skotum. Ef skotið er á þeim tíma árs í eggveri annara fugla, eða svo nærri því, sem nú var mælt, skal gjalda 1 rd. í sekt fyrir skot hvert, og þar á ofan sekt eptir 5. grein, ef svo stendur á. Herskipaskot eru undan skilin banni þessu.

## 15. grein.

Sýslumenn skulu ótilkvaddir af eiganda hvert ár á manntalsþíngum lýsa friðhelgi þeirra staða, þar sem landsela veiði eða útsela nú er tíðkuð með nótum eða öðrum hætti. Vilji maður taka upp nýja staði til selveiða og friðhelga, þá skal hann segja til sýslumanni, og skal hann þá lýsa friðhelgi þeirra hvert ár á manntalsþíngum, ef skynsömum mönnum og óvilhöllum sýnast þeir vel hentir til slíkrar veiði. Nú skýtur maður landsel eða útsel eða veiðir á annan hátt á friðhelgum stað, eða svo nærri honum, að ekki sèu 2 hundruð faðma tólfræð í milli, þá eignast landeigandi veiðina. En ef maður skýtur landsel eða útsel fjær friðhelgum stað, og þó svo nærri, að ekki sè 1000 faðmar eða fjórðúngur mílu í milli, eignast sjóður sveitar þeirrar veiðina. Sá er brýtur móti grein þessari, skal gjalda sektir og skaðabætur eptir 5. grein, og þar á ofan 2 rd. fyrir hvert skot.

## 16. grein.

Vöðuseli og annan farsel má hver maður skjóta eða veiða í nótum, hvar sem hann vill, og þó ekki nær annars manns landi enn 60 faðma frá stórstraums fjörumáli. Landeigandi á veiði alla á því sviði, því það eru netlög hans. Nú vill maður leggja nót af landi eða í netlögum annars manns, þá skal hann semja þar um við landeiganda og stendur það. En ef landeigandi synjar veiðinnar, og sýnist óvilhöllum mönnum, að hann hefði getað leyft sèr að skaðlausu, eða nóteiganda þykir landeigandi selja of dýrt leyfi sitt, skal nóteigandi leita sýslumanns, og skal hann bjóða landeiganda að leyfa nótlögin og nefna til menn og kveða á leiguna. Nú leggur maður nót fyrir farsel í netlögum annars manns og hefir ekki til leyfi landeiganda eða aðra heimild, þá veiðir hann landeiganda. Með ábyrgð hans og upptöku nótanna skal fara eptir fyrirmælum 12. greinar. Þar sem venja er að veiða farsel með skutlum má einginn maður skjóta byssuskoti í vaðinn; en ef hann gjörir það, gjaldi 1 rd. fyrir hvert skot.

## 17. grein.

Það skal vera skylda þeirra manna, sem leiðbeina útlendum skipum inn á hafnir, að segja skipstjórnarmönnum hvar friðheilög eggver eða selveiði þar er í grennd við kaup-

túnin, og hvert bann við er lagt, ef skotið er of nærri þeim úr fallbyssum eða öðrum byssum. Nú er skotið af skipi, og ber ekki nauðsyn til, þá verður skipstjórnarmaður sekur um það; en eiga skal hann heimtíng til endurgjalds að leiðsögumanni, ef hann var á skipi þá er skotið var, og hinn getur sannað, að leiðsögumaður hefir ekki sagt honum til sem vera bar.

## 18. grein.

Nú hefir maður orðið sekur um ólöglega veiði, annaðhvort með dómsatkvæði eða amtmannsúrskurði, og brýtur hann optar enn um sinn, þá skal hann í hvert skipti hafa fyrirgjört netum og öðrum veiðitólum, er hann hefir við haft, og eignast sveitarsjóðurinn þau, hver sem sök sækir, yfirvald konúngs eður sá, sem skaða beið. Allar sektir, sem goldnar eru eptir tilskipun þessari, eignast sveitasjóðirnir.

## 19. grein.

Ef brotið er móti 11 — 15. ggr. í tilskipun þessari, skal fara með sakir þær sem opinber lögreglumál; því skal valdsmaður konúngs rannsaka málið og dæma hinn seka, hvort sem sá, er skaða beið, eða aðrir út í frá, segja honum til afbrotsins, eða hann fær vitneskju um það á annan hátt, nema sá hinn seki kjósi heldur að málið sè útkljáð á þann hátt, sem mælt er í 10. grein tilskipunarinnar 24. Janúar 1838. Þó skal sá, er skaða beið, eiga kost á að höfða sök og sækja á sinn kostnað, ef honum svo sýnist, t. a. m. ef valdsmanni skyldi þykja skýrslur þær, sem fram eru komnar, ónægar til opinberrar málssóknar.

Öll mál önnur, er höfðuð eru um afbrigði þessarar tilskipunar, skal til dóms sækja á sama hátt og önnur lögreglumál, þau er ekki eru opinber.

## 20. grein.

Ef maður veiðir heimildarlaust, og verður það uppvíst, þá er málið er rannsakað, að hann hafi framið nokkurn þann misverka um leið, er stórglæpasök fylgir, skal til taka veiðisektina í dómsatkvæði því, er gjört er um stórglæpasökina.

## 21. grein.

Með þessari tilskipun er allt það aftekið, sem lög hafa

verið híngaðtil um fuglveiði og dýraveiði og selveiði, en allar greinir laganna um fiskveiði og hvalveiði skulu standa óraskaðar.

---

# Ástæður

## fyrir frumvarpi til veiðilaga á Íslandi.

Samkvæmt úrskurði konúngs, dagsettum 23. Apríl 1845, skipaði konúngsfulltrúinn á alþíngi, kammerherra og stiptamtmaður Bardenfleth, þann 6. Aug. s. á. nefnd manna til að rannsaka og síðan rita frumvörp um, hversu bæta mætti skattgjaldslögin á Íslandi, og um ýmisleg önnur málefni, landbúnaði Íslands viðvíkjandi, m. fl.

Eptir það sendi formaður nefndarinnar hinu danska kansellíi, meðal annars, frumvarp til veiðilaga á Íslandi, ásamt ástæðum fyrir því. Gat hann þess, að hann hefði sjálfur í fyrstu samið frumvarp þetta, en það hefði síðan verið rædt í nefndinni, og hefði því þá að nokkru leiti verið breytt, svo það hefði feingið þá lögun, sem nú er á því.

En með því rentukammerinn stóð næst að gjöra um mál þetta, sendi kansellíið rentukammerinu frumvarpið til meðferðar á vanalegan hátt.

Þá er nefndin samdi ástæðurnar fyrir frumvarpinu gat hún þess, að hin íslenzku veiðilög hafa um lángan tíma þótt ófullkomin og ónóg til verndar rèttindum manna, og heldur ekki samsvara tímanum og kröfum hans.

Þetta fer og mjög svo að líkindum, þar sem sá hluti veiðilaganna, sem í Jósnbók er, er eldri enn 560 ára, og þó að nokkru leyti, tekinn úr eldri lögum. Að vísu hafa nokkur lagaboð komið út um veiðar á Íslandi undir aldamótin seinustu, og nokkur á þessari öld, en þareð lagaboð þessi næstum eingaungu áhræra friðun æðarfugla, en ekki aðra veiði, og ákvarðanirnar í sjálfum sèr eru æði ógreinilegar, eru þær nú um stundir undirorpnar sífeldum misskilníngi.

Til að bæta úr þessum brestum varð amtmaður sál. Thorarensen fyrstur til að semja frumvarp til tilskipunar um friðun æðarfugla og veiði yfirhöfuð á Íslandi, og lagði hann frum-

varp það fyrir embættismannanefnd þá, er samkvæmt konúngs úrskurði 22. Aug. 1838 árið eptir átti fund í Reykjavík til að yfirvega ýmisleg mikilvæg málefni, Íslandi viðvíkjandi. Af uppástúngu þessari varð sá eini árángur, að út kom opið bréf þann 1. Marz 1843, sem segir fyrir hvernig fara skuli með þau mál, sem rísa útaf friðhelgi æðarfugla og eggvera, eða útaf selaveiði. Þar á móti nær lagaboð þetta ekki til veiðirèttar yfirhöfuð, þar sem það einúngis skýrskotar til úrskurðar frá 17. Júli 1816.

Af þessum rökum þótti nefndinni nauðsyn á að safna saman þeim stöðum úr Jónsbók sem enn eru í gyldi, og semja eptir því almenn veiðilög handa Íslandi; hafði og nefndin í því skyni búið til frumvarp það, sem áður er getið, viðvíkjandi grundvallarreglum þeim, er nefndin hafði fylgt þá er hún samdi frumvarpið, þótti rentukammerinu það rètt, að nefndin hafði ætlazt til að hin nýju veiðilög yfirhöfuð skyldi, svo mjög sem verða mátti, styðjast við þau lagaboð, er híngað til hafa verið í gyldi á Íslandi. En að því er viðvíkur einstökum ákvörðunum, þá má telja frumvarp til veiðilaga meðal þeirra laga, að mikið er undir komið um einstök atriði þeirra, hvernig á högum stendur. Nú með því ætla má, að embættismenn þeir, er í nefndinni sátu, og sem voru gagnkunnugir öllu ásigkomulagi, hafi tekið það nákvæmlega til greina, þá er þeir sömdu frumvarpið, þóttist rentukammerið ekki hafa ástæðu til ad gjöra neina stórvægilega breytíng á frumvarpinu áður það væri feingið alþíngi til yfirvegunar; eptir að hafa skrifazt á við kansellíið, lèt rentukammerið sèr því nægja aðeins að gjöra einstaka breytíngar við frumvarpið þar sem þess þótti þörf, þegar greinir frumvarpsins voru bornar saman við ástæðurnar. Og skal hèr á eptir verða skýrt frá, hverjar þessar smábreytíngar eru, og frá ástæðunum fyrir þeim.

Um 1tu, 2ra og 3ju grein (Ll. b. 7—57 og tilskipan 20. Maí 1840) gjörði nefndin þessa athugasemd:

„Hèr er tekin upp grundvallarregla sú, sem verið hefir í gyldi á Íslandi eptir Jónsbókar Ll. b. 7. og 57. kap.,[1] að veiðirèttur fylgi jörðunni. Sama regla gyldir og í Danmörku eptir tilskipan 20. Maí 1840, og olli þó rèttar ástand það, er áður hafði verið í Danmörku, því, að ekki allfáar undantekníngar varð að gjöra frá hinni almennu reglu, en til þessa er ekki nein sèrleg ástæða á Íslandi. Til að vernda veiðirètt jarðar-

ábúanda, þótti einnig tilhlýðilegt að banna öðrum veiði á þeim hluta hafs, sem liggur næst landi; þó hèlt nefndin að takmarka bæri veiðirètt jarðeiganda þannig, að hann einúngis ætti að ná 60 faðma á haf út, og var í því farið eptir ákvörðunum þeim sem gjörðar eru um netlög, og er um það nákvæmar sagt fyrir í ástæðunum fyrir nýjum rekalögum á Íslandi, (sbr. Jónsbókar rekab. kap. 2. og 8. að niðurlagi). Þar sem tvær jarðir liggja nálægt hver annari við firði, víkur og sund, er það eðlilegt, að veiðirèttur hverrar um sig nái skemmra enn 60 faðma frá landi, því þegar svo stendur á, takmarkast rèttur hvers jarðeiganda við annars."

Þess ber fyrirfram að geta, að ekki voru í fyrstu greininni í frumvarpi nefndarinnar teknar nægilega til greina undantekníngar þær frá hinni almennu reglu um veiðirètt jarðeiganda eins á lóðinni, sem síðar koma fyrir í frumvarpinu, þótti því nauðsýn á að breyta nokkuð greininni. Að öðru leiti gat rentukammerið ekki annað enn fallizt á ákvarðanir þær, sem nefndin hafði stúngið uppá í tèðri grein, þó áleit það nauðsýnlegt, að breytt væri nokkuð reglu þeirri, sem nefndin hafði stúngið uppá um, „að þegar sameign er á einni jörð, skuli veiðirèttur sèrhvers sameignarmanns fara eptir því, hversu stóran part hann á í jörðunni." Hér mun einkum vera haft tillit til þvílíkrar sameignar, þar sem menn eiga vissan part í jörðu, án þess henni sè skipt eptir merkjum, t. a. m. hálfa jörð, þriðja part úr jörðu, o. s. frv.

En eptir slíkri skiptíng verður ekki farið, þegar nota skal veiðirèttinn, því einsog einn jarðeigandi má taka fleiri með sèr á veiðar, eða láta aðra veiða sèr, þannig er það og eðlilegt, að sèrhver af sameigendum megi nota veiðirèttinn á allri jörðunni, og virðist það því síður ísjárvert, vegna þess veiðirètturinn á Íslandi híngað til hefir að miklu leiti verið álitinn sem svo nefndur saklaus brúkunarrèttur.

En ef jörð er skipt milli fleiri eptir merkjum, þá er eðlilegt, að svo sè um veiði á hverjum parti, sem heil jörð væri.

Stúngið hefir verið uppá, að menn geti gjört annan samníng, þar sem fleiri eiga veiði á einni jörð. Þetta er nú að vísu rètt í sjálfu sèr, en þó virðist ástæða til að takmarka tèða reglu þannig, að slíkur samníngur ekki skuli gilda leingur enn um þann tíma, sem menn eiga jörð saman. Þetta er og samkvæmt aðalreglu þeirri í 4. grein frumvarpsins, að jarð-

eigandi ekki á heimilt að láta af hendi veiðirètt frá jörðunni, og mun þess síðar nákvæmar getið, en hèr þótti þörf á með berum orðum að geta þess, til að komast hjá misskilníngi.

Nefndin hefir í 3. grein brúkað orðið: „Enemærker“ í allt annari þýðíngu enn þeirri, sem orðið hefir í hinum dönsku veiðilögum. Með því nú orðið á þessum stað mun hafa átt að þýða sama og „landamerki“, er þetta orð sett í staðinn.

Að öðru leiti eru ákvarðanir greinar þessarar um veiði á sjó nokkuð mismunandi frá reglunni í tilskipan 20. Maí 1840 15. gr.

Við meðferð málsins var þess að vísu getið, að undarlegt mætti virðast, að jarðeigandi einn skuli eiga veiði svo lángt á haf út, þegar jörð hans liggur að sjó, að veiðirèttur hans eptir þessu nær miklu leingra, enn veiðirèttur jarðeiganda í Danmörku, eptir lögum þeim, sem nú eru þar í gildi, þar sem þó veiðirèttur á Íslandi híngað til einganveginn hefir verið svo reglubundinn sem í Danmörku. Það virtist jafnvel mega verða jarðeiganda þeim, er veiða vill á sjó, til mikillar tálmunar, að hann verður að hætta veiðinni, þá er hann er kominn 60 faðma frá landi.

Svo kynni það og opt að verða harla torvelt, bæði meðan á sjálfri veiðinni stendur og eptirá, þegar rannsaka á lögmæti veiðarinnar, að dæma um, hvort veidt hefir verið á þeim hluta hafs, sem liggur landi svo nærri, einsog tiltekið er.

Nefndin hafði einnig við 4. grein getið þess, að fáir væri þeir á Íslandi, er kynni að fara með byssu. Ef nú veiði á sjó væri bönnuð þeim, sem kynni að hafa gaman af henni, þótti líklegt, að hún mundi ekki verða notuð af öðrum. Að vísu var það, sem nú var fært til úr ástæðunum fyrir 4. grein, einkum álit minna hluta nefndarinnar, en þess ber að geta, að því einganveginn var mótmælt af meira hlutanum, og var þó ekki meiri hlutinn samþykkur minni hlutanum um það, er var aðalefni greinarinnar.

Það þótti því efunarmál, hvort ekki ætti að fara eptir tilskip. 20. Maí 1840 § 15. í frumvarpi því, er nú skal leggja fyrir alþíng, og svo bíða eptir hvort nokkuð það kæmi fram á alþíngi, að breyta þyrfti tèðri ákvörðun; því þó vænta mætti, að uppástúnga meiri hlutans væri löguð eptir landsins þörfum, kynni þó að vera efunarmál, hvort ekki mótbárur þær, sem

koma fyrir í sjálfu álitsskjali nefndarinnar, þegar það er skoðað í allar æsar, ætti að sitja í fyrirrúmi.

En auk þess, að meiri hluti nefndarinnar hafði látið þá meiníngu í ljósi, að ákvörðun sú, sem hèr ræðir um, væri byggð á ásigkomulagi landsins, ber þess að geta, að það er mjög svo áríðanda fyrir marga jarðeigendur, að halda þeim rètti óskertum, sem tilskipan þessi áskilur þeim einum til að veiða sel í nótum á þeim hluta hafs, er liggur næst landi þeirra.

Fyrir þá sök þótti rèttara að breyta ekki neinu í þessu efni í frumvarpinu, heldur að eins láta áðurnefndar athugasemdir koma fram í ástæðunum fyrir frumvarpinu til yfirvegunar við meðferð málsins á alþíngi, og sjá svo til hvort alþíng verður á öðru máli um þetta efni enn meiri hluti nefndarinnar.

Um 4. grein. (Llb. 7—57).

Um það hafði verið rædt í nefndinni, hvort eigandi, þá er hann byggir jörð, má um lánga eður stutta stund skilja veiðina frá jörðunni, þar sem veiðirètturinn eptir grundvallarreglunni í 1. grein á að fylgja jörðunni.

Fyrir því að svo mætti gjöra, var fyrst færð til sú ástæða, að veiðirètturinn er þvílíkt hlunnindi, að svo má virðast að eigandi ætti að geta farið með hann eins og hver önnur eignarrèttindi, og því næst, að það væri til hnekkis frjálsum eignarrètti, ef eigendum væri neitað um að selja af hendi veiðirètt þann, er fylgir með jörðunni.

Þá var og þess getið, að ekki er sjaldgæft að rekarèttur, er samsvarar veiðirètti þeim, er jörðunum fylgir, hefir verið seldur af hendi, einkum á fyrri tíðum.

Að síðustu var það tilfært, að lagaboð þau, sem nú eru í gyldi, virðast að heimila aðskilnað veiðirèttarins frá jörðunni, því í Jónsbókar Llb. 7. kap. segir svo: „ef fiskiveiður eður fuglaveiður eður eggver fylgir leigulandi, þá á leiguliði það allt, nema frá sè skilt í kaupi þeirra,“ en með þessari undantekníng ætti að vera gefið til kynna, að jarðeigandi gæti bæði áskilið sjálfum sèr og líka afsalað öðrum útífrá hlunnindi þau, sem þegar voru nefnd.

Hinsvegar var þess getið, að ef veiðirètturinn væri skilinn frá jörðunni og brúkaður sèrílagi kynni það að hafa íllar afleiðíngar fyrir jarðaræktina, og væri það áríðandi, svo sem unnt væri, að koma í veg fyrir það með löggjöfinni; það kynni

einnig að valda nokkrum ágreiníngi, þegar fara ætti að brúka veiðirèttinn, og mundi ekki að eins leiguliðar una því ílla, heldur og einnig þeir, er seinna kynni að eignast jörðina, enda mætti það og yfirhöfuð virðast ísjárvert, að löggjöfin skyldi hvetja menn til að stofna slík veiðiútök fyrir lángan tíma.

Þess var einnig getið, að það án efa mundi stríða móti þjóðarviljanum, ef menn þannig gætu selt af hendi veiðirètt sinn, og væri það til merkis, að slíkt hefði aldrei viðgeingizt híngaðtil, að því er menn til vissu.

Nefndinni þótti því rèttast, að eiganda að eins væri gefinn kostur á, í hvort skipti þá hann byggir jörð sína, að áskilja sjálfum sèr veiðirètt, en að honum apturámóti væri bannað að láta veiðirèttinn af hendi til annara enn leiguliða sjálfs, og mundi með því móti leiguliði optastnær geta haft not af veiðirètti þeim, er fylgir ábýlisjörðu hans.

Annars voru nefndarmenn ekki á eitt sáttir um veiðirétt leiguliða sjálfs. 2 af nefndarmönnum voru á því, að ekki þyrfti að leggja bann við að leiguliði mætti ljá öðrum veiðina nema eigandi leyfði það með berum orðum, þareð eiganda optast mætti standa á sama hvort það væri gjört eður ei, enda gæti hann og, þá sjaldan svo stendur á að honum þætti það áríðanda, haft það í skilmálum, þá er hann byggir jörðina. Þeir hèldu einnig, að slík ákvörðun mundi verða gagnslaus, vegna þess að veiðin, eptir því sem á stendur, ekki verður notuð af öðrum enn þeim fáu sem kunna að fara með byssu, en þeir hinir sömu eru vanir að fara yfir veiðilönd margra manna í hverri ferð, þegar þeir eru á veiðum, og er það álitin saklaus brúkun á annara eign, af því landeigendur sjálfir sjaldan nota veiðina, nema þar sem eru varplönd eða selveiði í nótum, sem hvorttveggja er friðheilagt.

Þarámóti þótti meira hlutanum það vera samkvæmt grundvallarreglum þeim sem áður er getið, að leiguliði ætti að hafa samþykki jarðeiganda til að ljá öðrum veiðina, og að minnsta kosti gæti slík ákvörðun aldrei orðið að meini.

Ákvörðunin í upphafi greinar þessarar í frumvarpi nefndarinnar var ekki nógu greinileg, er hún virtist að geta orðið misskilin á þann veg, að eigandi og leiguliði ættu báðir rètt til veiði þegar jörð er bygð.

Fyrir þessa sök, og af því fleiri athugasemdir voru gjörðar um fyrirkomulag greinarinnar þegar málið var fyrir í stjórn-

arráðunum, hefir verið reynt til að bæta úr þessum brestum með því að koma greininni öðruvísi fyrir.

Við þessa meðferð málsins var það einnig athugað, að jarðeiganda væri varla neitandi um, fyrir hans eignartíma, að fá öðrum í hendur veiði á hans lóð, og að menn því síður ætti að fara öðru fram enn því, sem tilskipan 20. Mai 1840 § 8 tiltekur, þareð það jafnvel á Íslandi er síður áríðandi enn í Danmörku, að veiðirètturinn ekki sè í annars manns höndum. Þó jörðin seinna kynni að verða bygð, þá var það ekki álitin nægileg mótbára, þar hafa má í skilmálum, hvort leiguliði skuli hafa veiðirètt eður ei. Að síðustu var þess getið, að það kynni að eiga vel við að tiltaka, að þegar eigandi, sem byggir jörð sína, áskilur sèr veiðirètt, skuli einnig sá sem eignast jörðina eptir hann njóta sama rèttar, ef hann að öðru leiti í alla staði fær sömu rèttindi gegn leiguliða og hinn hafði áður.

En eptir því sem áður er frá skýrt, er grundvallarregla sú, sem hèr ræðir um, samkvæm rèttar ástandi því er híngað til hefir verið í gyldi á Íslandi, og þótti því síður ástæða til nú sem stendur að hreyta því, þar sem slík breytíng, eptir því er nefndin hafði skýrt frá, mundi ekki verða alþjóðleg; þótti því rèttara, að bíða álits alþíngis um þetta efni.

Um það þegar fleiri eru ábúendur til leigu á einni jörð er vísað til 1. greinar og eru þar færðar til ástæðurnar fyrir ákvörðun þeirri, er rentukammerið hefir stúngið uppá.

Um það var ágreiníngur meðal nefndarmanna, hvort leiguliða skyldi heimilt að láta aðra veiða á byggíngarjörð sinni án eiganda samþykkis. Rentukammerinu og hinu danska kansellíi þótti ekki næg ástæða til að neita leiguliða um, að láta aðra veiða sín vegna, og er greinin nú löguð samkvæmt þessu í frumvarpinu. Aptur á móti þótti það ekki vera samkvæmt grundvallarreglunum í greininni, að leyfa leiguliða að ljá öðrum veiðina um alla byggíngartíð sína, sem opt kynni að vera hans lífstíð, nema hann til þessa hefði leyfi eiganda.

Um 5. grein. (Llb. 5—7—58).

Eptir 4. grein frumvarpsins fylgir veiðirèttur optast jörðunni, hvort heldur hún er brúkuð af jarðeiganda sjálfum, eða hún er leigð öðrum. Af þessu leiðir, að ábúandi jafnan á að fá skaða sinn bættan þegar aðrir útífrá veiða að óheimilu á lóðinni.

Að öðru leiti hafði einn af nefndarmönnum látið þá meiníngu í ljósi, að það optastnær, þegar um mest er að gjöra, og einkum þegar selur er skotinn á þeim stöðum, þar sem landsdrottinn er vanur að láta veiða (sbr. 15. gr.) er ógjörníngur að meta stærð skaðans. Fyrir þá sök hèlt tèður nefndarmaður, að sá, sem skaða bíður, skuli hafa jafnmiklar bætur og sú sekt er, sem lögð er á við óleyfilegri veiði, þó skyldi það vera honum á sjálfsvaldi, áður málið geingur til dóms, að hafna tèðum skaðabótum og beiðast þess, að skaðinn sè metinn af óvilhöllum mönnum. Hinir aðrir nefndarmenn hèldu þarámóti að, af því skaðinn getur verið svo misjafn, og samsvarar ekki ætíð yfirsjóninni, ætti sá er skaða beið, að fá hann bættan eins og hann er, þegar það verður ákveðið, og getur hann þá ekki heimtað meira.

Annars var haldið, að sektir þær, er í frumvarpinu eru ákveðnar og skaðabætur, mundi verða nóg vernd gegn óleyfilegri veiði. Svo var og þess getið, að opt verður með vissu sagt, hversu stór skaðinn er, t. a. m. þar sem dýr er drepið og leyniskotmaður hefir kastað á það eign sinni, en ekki gjört annan skaða. Það þótti því sjálfsagt, að skaðann ætti að meta af óvilhöllum mönnum, enda er það og alvenja, að skaði sè metinn á þenna hátt eptir Jónsbók, einkum í Llb. 57. kap. um skaða þann sem gjörður er á eggverum annara með veiði.

Svo var og haldið, að tilskipan 13. Júní 1787 kap. III, § 7, mundi hafa haft fyrir augum nefnt lagaboð með orðunum: „eptir lögum" (efter Loven) og „skaðabót eptir lögum" (Skadegjeld efter Loven), og slíkt hið sama hefir einnig úrskurður konúngs frá 17. Júlí 1816, Nr. 7, ákveðið um skaðamatið.

Rentukammerið gat ekki annað enn fallist á þessa meiníngu meiri hluta nefndarinnar, þó með því skilyrði, að hinn seki bætti þeim, er beiðist matsins, kostnað þann er af því leiðir, nema því að eins, að hinn seki hafi þegar, áður matsins var beðizt, boðið jafnmiklar bætur og þær, er síðar við matið verða ákveðnar.

Þessu hefir því verið bætt við greinina og þótti einnig hæfa, með berum orðum að tilgreina, að stærð sektarinnar skyldi einkum vera undir því komin, hvort hinn seki hefði brotið optar enn einusinni.

Þá er málið kom til umræðu í stjórnarráðunum var sú at-

hugasemd gjörð, að sekt um hálfan ríkisdal og allt að 10 ríkisdölum mætti virðast oflítil til þess að veiðirètturinn feingi þá vernd, sem tilskipan þessi ætlazt til, og þótti því hæfa að ákveða sektina frá 2 allt að 10 ríkisdölum.

En með því fátækir almúgamenn á Íslandi eiga bágt með að greiða jafnvel smávegis peninga-útlát, og þareð missir veiðinnar og útlát í skaðabætur jafnan aptra mönnum nokkuð frá yfirtrozlum veiðilaganna, þótti ekki vert að hækka sekt þá, er nefndin hafði stúngið uppá, nema því að eins, að alþíng rèði til þess.

Um 6. grein.

Nefndinni þótti efasamt, hvort sá sem særir dýr á eigin lóð, má elta það í annars manns land, því þar svo er fyrirmælt, að einginn má aðhafast neitt í landi annars manns, nema svo að hann hafi leyfi eiganda, þá virtist það að vera öldúngis samkvæmt eðli eignarrèttarins að banna mönnum að elta dýr í annars land.

Ef þetta væri leyft, gæti það einnig gefið mönnum tækifæri til að fara í kríngum bann það, sem gjört er gegn óheimilli veiði á annara lóð; það er og einnig bannað í enum nýju veiðilögum Dana, (tilskipan 20. Maí 1840 § 17).

Samt sem áður þótti meira hluta nefndarinnar ísjárvert, að leggja bann á þetta, bæði vegna þess, það virtist að vera leyft í Jónsb. Llb. 57. kap., og líka fyrir þá sök, að örðugt mundi veita, að hafa tilsjón með, að banninu yrði hlýdt, sökum hins mikla víðlendis, er venjulega liggur undir eina jörð, og sem ollir því, að þráfaldlega mundi verða breytt á móti banninu. Svo mundi og neitun rèttar þess, er hèr ræðir um, og sem leyfður er í NL. 5—10—3, eiga ílla við einkum á Íslandi, þar sem svo er ástatt, að öll veiði venjulega er álitin sem saklaus brúkun á annara eign, (nema þar sem eru eggver eða netlög). Auk þessa er í raun rèttri munur á að fara gagngjört í annars manns land á veiðar, og að elta þángað dýr það, er sært er, er það jafnvel kann að vera gustukaverk, að gjöra útaf við það. Meiri hluti nefndarinnar gat þess og, að allt önnur hvöt er til, með lagaboðum að banna mönnum að elta dýr í annars manns land í þeim löndum, þar sem veruleg akuryrkja á sèr stað, heldur enn á Íslandi, þar sem mestur hluti jarðar er graslendi. Þarámóti var minni hluti nefndarinnar á því, að banna ætti mönnum að elta dýr í annars land, og bæri því hèr að löggylda 17. grein. í tilskip-

un 20. Maí 1840, því væri það ei gjört, væri það hið sama, og að leyfa hverjum og einum veiði á annara lóð.

Þarsem ásigkomulag landsins og víðlendi jarðanna var talið til sem mótbára, þá virtist það ekki fremur að eiga við um veiði á særðum dýrum, enn um aðra veiði; auk þessa virðist þessi ástæða sízt að eiga við um veiði við sjó og við verzlunarstaðina, og er þó óleyfileg veiði þar skaðlegust og geingst þar mest við. Þó brotið yrði stöku sinnum móti lagaboði nokkru, áleit minni hlutinn það ekki vera næga ástæðu til að aptra lagaboðinu. Ákvarðanirnar í 57 kap. í Llb. í Jónsbók þeirri sem prentuð er ár 1709, þóttu einnig ógreinilegar, og var haldið að nokkru væri skotið inní á eptir og sumt rángfært, því orðin: „í fyrstu — að fyrst“ finnast ekki í mörgum góðum skinnbókum, og í staðinn fyrir orðin: „mark á“ hafa þær beztu „markar“, og verður þá meiníngin öll önnur, og lendir í mótsögn við byrjun kapítulans.

Þegar grein þessi kom til umræðu í stjórnarráðunum var þess getið, að það máske kynni að vera rèttast, eptir því sem ástendur á Íslandi, að leyfa mönnum að elta dýr í annara land. Þar sem sagt hefir verið, að það leiði af sjálfum eignarrèttinum að slíkt verði að banna, þá er eignarrètturinn tekinn í svo víðri merkíngu, að það naumast kemur heim við almennar rèttarreglur, og heldur ekki er því fylgt fram í sjálfu þessu lagafrumvarpi, er það leyfir að skjóta viss skaðvæn dýr á annara lóð. Hinir eldri kennarar í náttúrurètti, sem talað hafa um þetta efni í lærdómsbókum sínum, hafa næstum allir verið samdóma um, að það væri grundvallað í náttúrurètti, að mönnum sè leyfilegt að elta dýr inná annara lóð, og kváðu því eldri danskir lögfræðíngar ákvörðun DL. 5—10—27 vera ósamkvæma náttúrurètti. Slíkt hið sama er einnig viðurkennt í mörgum löndum þar sem veiðirèttur er álitinn konúngseign; og einstaka jarðeigendum gefið leyfi til að nota hann, og er hann þar umgirtur bæði með straungum hegníngum og með mörgum lagaboðum, sem búin eru til eptir geðþekkni, og miða til að aptra mönnum frá að brjóta á móti veiðilögunum.

Þar sem sagt hefir verið, að þó leyft hafi verið að elta dýr inná annars manns lóð, þar sem ekki er friðhelgi lýst yfir, vegna þess að slík veiði hafi verið álitin saklaus brúkun, þá eigi sú ástæða ekki leingur við þegar að er gætt, að það verður að vera undir eiganda sjálfum komið, hvort hann vill

leyfa það eður ei. — Þá er það samt sem áður athuganda, að það kynni að virðast hart, að sá sem ekki hefir gjört annað enn það, sem leyfilegt er eptir almennu áliti, og án efa einnig eptir Jónsbókarlögum, og í sjálfu sèr saklaust, skuli eiga á hættu að verða dreginn fyrir dóm, ef eigandi vill nota sèr þau hin nýju lög. Að sönnu hefir því verið hreift, að sama megi segja til afbötunar allri veiði á annara lóð; en þó veiðirèttur sá, er segja má um, að hann fremur híngað til ekki hafi verið bannaður, heldur enn að hann hafi verið leyfður, sè tekinn af, er fyrir það eingin nauðsyn á, af ýtrasta megni að vernda landráðanda einum veiðirètt. Eins og áður er ávikið, er það og víða haft að lögum, að elta megi dýr það, er skotið er á egin lóð, inná land annara, þó almennt veiðifrelsi annars ekki hafi þar stað, enda liggur ekki í því nein tilraun til að eigna sèr það er fylgir annars manns jörðu.

Svo mun það og veita þýngra fyrir þann, sem farinn er að elta dýr, að hætta því, þegar dýrið er komið inn á annars manns lóð, heldur enn að halda sèr frá veiðum á þeirri lóð. Nokkuð virðist líka vera til í því, sem meiri hluti nefndarinnar hefir fært til um, að það kunni að vera gustukaverk að gjöra útaf við dýr það, sem búið er að særa. Ekki virðist heldur svo mjög hætt við, ef leyfi væri gefið til að elta dýr í annars manns land, að það mundi gefa tækifæri til óleyfilegrar veiði, þar sá sem uppvís yrði að veiðum á annars manns landi, og vildi bera fyrir sig, að hann að eins hefði elt þángað dýr, sem hann hefði sært á eigin lóð, yrði að gjöra líklegt, að svo hefði verið, ef það ætti að verða honum til nota.

Að síðustu er það ekki tilgángur tilskipunar þeirrar, sem hèr er verið að setja á stofn, eins og venja er í veiðilögum annara landa, þar sem veiðirèttur er mikils metinn, og einkum í tilskip. 20 Mai 1840, að leggja við, til verndar veiðirèttinum, sèrlegt bann eða hegníngar, þó eitthvað sè gjört í þá átt, er skerða mætti veiðirèttinn, heldur lètu menn sèr nægja, að leggja bann við og mjög væga hegníngu, þegar brotið er beinlínis á móti honum. Svo kynni það og alla tíma að virðast nægilegt, að sá sem eltir dýr það, er hann hefir sært á eigin lóð, í land annars manns, einúngis sè skyldur til að láta dýrið af hendi við landeiganda, og skyldi hann vera sýkn sakar, ef hann ekki í þessu sýndi nema vanhirðíng.

Þó kynni það að vera, að varla ætti að gjöra honum þetta

að skyldu, þareð virðast kynni, að hann eigi meiri rètt til dýrsins en eigandi jarðarinnar, þar sem dýrið var lagt að velli. En þó nú svo væri, að það væri álitið óheimilt að elta dýr inní land annars manns, þótti það samt efunarmál, hvort neita ætti þeim um dýrið, sem skotið hefir á það á eigin lóð, þegar það hleypur inná annars manns land, án þess hann elti það, og deyr þar af skotinu, eða hvort hann á að sektast, ef hann fer þángað til að sækja veiðina.

Þó að þannig mikilvægar ástæður væri færðar til fyrir því, að það ætti bezt við rèttar ástandið á Íslandi, að leyft væri, einsog í NL. 5—10—3, að elta dýr með skoti inná annars manns land, þótti það samt hinsvegar ísjárvert, að veita slíkt leyfi með berum orðum í frumvarpinu til nýrra veiðilaga, er fyrst og fremst gjöra sèr það að grundvallarreglu, að sameina veiðirèttinn, svo sem verða má, eignarhaldinu.

Því verður heldur ekki neitað, að ef leyft væri að elta dýr með skoti í annars land, mundi það gjöra hverjum og einum hægra fyrir að fara yfir veiðiland annara með byssu, og gæti hann þá borið fyrir sig, að hann væri að elta dýr eða fugla, sem hann hefði skotið á. Það er og auðvitað, að veiðirèttur landráðanda gæti ekki verið óhultur með því móti.

Nú þó virðast mætti, að veiðirètturinn á Íslandi væri ekki svo mikils verður, að tilvinnanda væri, einúngis hans vegna, að þola allan þann óhagnað, sem á þessu landi kynni að leiða af því, ef mönnum væri bannað að elta dýr í annars manns land, þá virðist samt leyfi til þessa að vera of mjög gagnstætt grundvallarreglu þeirri í frumvarpinu, er þegar var nefnd, því regla þessi er einganveginn eingaungu hyggð á því, að veiðirètturinn sè svo mikils virði fyrir landráðanda, heldur er tilgángur hennar einnig, að veita jarðhaldendum þann frið á landi sínu, sem eðli eignarrèttarins krefur. Friður þessi mundi nú mjög svo raskast, einkum þar sem jarðir liggja við verzlunarstaði, ef mönnum væri leyft að elta dýr í annars manns land, og þykir því rèttast, að veita ekki leyfi til þessa, að minnsta kosti ekki nema því að eins að alþíng einnig kynni að mæla fram með að slíkt leyfi ætti að veita, eptir því sem á stendur á Íslandi; og er seinasta atriði greinarinnar lagað eptir þessu.

Um 7du og 8du grein. (Llb. 58).

Nefndinni hafði ekki þótt vert að halda ákvörðunum Jóns-

bókar Llb. kap. 58 um fuglaveiði og mismuni þeim, sem þar er gjörður á því, hvort fuglarnir fljóta á vatni eða eigi, og ekki þykir vera á góðum grundvelli byggður.

Hafði nefndin í því skyni getið þess, að ef jarðeigandi, eður ábúandi jarðar, á að geta verndað rèttindi þau, er hann á að lögum til veiði á fuglum þeim, er á vatni fljóta, og til veiði á rjúpum meðal landfuglanna, þá yrði að banna öðrum útífrá alla veiði á annara lóð. Nefndin hèlt því, að almennt leyfi ætti einúngis að veita til að veiða þau hin „grimmu landdýr," birni og refi, en rostúngum (*Trichechus Rosmarus*) mætti sleppa, því menn þekktu nú ekki leingur það dýr á Íslandi.

Birnir eiga ekki heldur heima þar, en koma þó stundum með hafísum frá Grænlandi á norður strendur landsins, og geta þá gjört bæði skepnum og öðrum hlutum skaða og jafnvel orðið hættulegir fyrir líf manna. Það hefir því frá alda öðli verið haft í lögum, að sèrhverjum væri heimilt að drepa birni, hvar sem er, og hefir þeirri reglu verið fylgt allt til þessa. Um refaveiði hèlt nefndin að fara ætti þann meðalveg, að hún skyldi sèrhverjum heimil, þegar farið væri á slíkar veiðar eptir tilhlutan yfirvalds eður sveitastjórnar, og skyldi þetta einkum eiga sèr stað, þegar vinna ætti gren á vorum. Refaveiði á vetrum tíðkast þarámóti fremur af einstökum mönnum, og er álitin sem nokkurskonar atvinnuvegur. Um þessa veiði hafði því nefndin haldið, að eignar- og ábúðar-rètturinn mundi verða nægilega verndaður, ef jarðar ábúandanum væri gefið leyfi til, öðrum framar, að stofna til refaveiðar á lóð sinni með sýnilegum nývirkjum (refagildrum, skothúsum) og öðrum veiðibrellum, þar sem hægt væri að koma þeim við eptir landslaginu, og ef öðrum útífrá væri gjört að skyldu, að hafa til slíkrar veiðar samþykki jarðhaldanda, þó svo, að ábúandi ekki má synja slíks samþykkis nema því að eins, að hann sjálfur ætli að færa sèr í nyt, að jörðin liggur svo vel við refaveiði, en sektast ella vægilegum fèbótum. Hèlt nefndin að þetta mundi einnig koma ábúanda til að vinna nokkuð að því, að eyða dýri þessu, er svo mjög er skaðvænt fyrir jarðarrækt landsins.

Þó jarðeigandi verði býsna hart úti eptir 8. grein, þótti rentukammerinu ástæða til að láta frumvarpið standa óbreytt, að því leyti, er þar segir fyrir um hvernig gren skuli vinna og um aðrar ráðstafanir til að eyða refum, þar-

eð við ákvarðanir þessar er haft tillit til, hversu áríðanda það er fyrir jarðarrækt á Íslandi, að refum verði eydt svo mjög er verða má, og vænta má, að nefndarmenn hafi þekkt vel til um atriði þetta. Þessvegna verður nú beðið álits alþíngis um, hvort það verður samdóma nefndinni um tèð atriði.

En af því eingin sveitastjórn er til á Íslandi, að kalla má, er veitt gæti leyfi til að vinna gren, þótti rèttast, að þetta væri gefið hreppstjórum á vald.

Hinsvegar þótti rentukammerinu ekki eiga vel við, að mönnum væri almennt leyft að skjóta refi á annara lóð, eins og ætlazt hafði verið til í frumvarpi nefndarinnar, bæði eptir orðum þess og tilgángi. Ef slíkt leyfi væri veitt, mundi það veita yfrið hægt hverjum sem vildi að fara í kríngum veiðirètt jarðeiganda, því hvenær sem maður finndist með byssu, eða það kæmist upp, að hann hefði skotið úr byssu á annars manns lóð, mundi hann næstum altjend geta borið fyrir sig, að hann hefði verið á refaveiðum.

Samkvæmt þessu er 8. greininni í frumvarpi nefndarinnar breytt.

Að síðustu ber þess að geta, að refir eingan veginn eru álitnir skaðlegir fyrir jarðarrækt í Danmörku, hvernig sem á stendur; leyfi það, sem eptir tilsk. 20. Mai 1840 § 12. er gefið þeim, sem ekki eiga veiðirètt, til að útrýma skaðvænum dýrum, sem þar eru tiltekin, nær því ekki til refaveiðar.

### Um 9. og 10. grein.

### (Konúngsúrskurður 17. Júlí 1816 2. og 3. grein).

9da grein frumvarpsins er tekin úr konúngs úrskurði 17. Júlí 1816 § 2, sbr. konúngsbrèf 23. Júní 1787, § 7, og tilskip. 13. Júní 1787 kap. III. § 7. Sú eina breyting er gjörð á ákvörðun úrskurðarins í frumvarpinu, að ef nýtt eggver skal upp taka, þá má ekki yfirvald, eptir embættis - skyldu, lýsa friðhelgi þess, nema óvilhöllum mönnum sýnist staðurinn vel tilfallinn til eggvers, og ábúandi hafi gjört þar nokkur sýnileg nývirki til friðunar æðarfugla, svo sem búið til hólma, bygt upp hreiður, reist upp hræður o. s. frv.; því eptir 14. grein má ekki hleypa úr byssu nær friðhelgu eggveri en svo, að fjórðúngur mílu, eða 1000 faðmar, sè til eggvers, en ísjárvert þótti að takmarka svo mjög hinn almenna veiðirètt á sjó einúngis

eptir kröfum einstaks manns, án þess aðrar ástæður væri tilgreindar fyrir því.

10da greinin er tekin úr konúngsúrskurði 17 Júlí 1816 § 3, þó svo að sýslumanni er gjört að embættis-skyldu að lýsa friðhelgi eggvera þeirra, sem nefnd eru í greininni; þótti slíkt nauðsyn vegna þess, að eggver þessi í sumum stöðum eru einkar arðmikil, ekki aðeins fyrir eiganda sjálfan, heldur og fyrir almenníng, t. a. m. Drángey í Skagafirði, er þángað er sókt úr allmörgum nærliggjandi hreppum.

Við það, sem þannig var fært til sem ástæður fyrir 9du og 10. grein, þótti rentukammerinu ekkert vera aðfinnanda, og virtist það sèrílagi ekki vera ráðlegt, að láta hina árlegu friðhelgis lýsíngu vera undir því komna, hvórt jarðeigandi æskir hennar, þareð það kynni hæglega að gleymast. Þarámóti á það að vísu vel við, sem hið danska kansellí hefir farið fram á, að ef embættismaður er í efa um, hvort eggverinu sè við haldið eins og vera her, þá á hann að láta rannsaka það. En eins og kansellíið sjálft hefir játað, að þetta sè sjálfsagt, þannig virðist það ei heldur nauðsynlegt, að gera neina ákvörðun um þetta í sjálfri tilskipaninni.

### Um 11tu grein.

(tilskip. 13 Júní 1787, kap. III, § 7, konúngsúrsk. 21 Júlí 1808, opið brèf 21 Apr. 1847, er gilda á í bráð).

Grein þessi í frumvarpi nefndarinnar er samin eptir bænarskrá þeirri, er alþíng í einu hljóði gaf inn til konúngs árið 1845. Nefndin áleit því óþarft að leiða framar rök að því, að ákvörðun þessi væri nauðsynleg, en skýrskotaði til álits þess, er alþíng í einu hljóði hafði látið í ljósi um þetta efni. Stærð sektarinnar fyrir hvern þann æðarfugl, sem drepinn er, er öldúngis hin sama og eptir tilskipan 13. Júní 1787, III. kap. 7. grein, og áskilur bæði þessi tilskipan og Jónsbókar landslb. 57di kap. þaraðauki eiganda eggvers skaðabætur.

Að sönnu verður ekki stærð skaðans ákveðin með vissu, þar ómögulegt er, t. a. m. að vita hve margir æðarfuglar sè fældir frá eggveri með einu skoti.

En meiri hluti nefndarinnar hèlt þó, að skaðabótina yrði í hvert skipti að meta af óvilhöllum mönnum (sbr. athugasemdirnar við 5tu grein).

Í rentukammerinu var grein þessari breytt samkvæmt

opnu brèfi 21 Apr. 1847, um fullkomna friðhelgi á æðarfuglum, er gilda skal í bráð á Íslandi.

Þegar málið var til umræðu í stjórnarráðunum var þess getið, að það væri máske ekki sem rèttast, að ákveða vissa sekt fyrir hvern þann fugl, sem drepinn er, þar þetta kynni að verða þúngbært, þegar margir fuglar væru drepnir í einu, og kríngumstæðurnar að öðru leyti væru hinum seka til meðmælis, og kynni, þegar svo ástæði, að meiga tvöfalda sekt þá, sem almennt er lögð við óleyfilegri veiði, (½ rd. allt að 10) og mundi þetta geta haft verkun á ákvarðanirnar í hinum greinunum, er á eptir koma.

Samt sem áður þótti ekki ráðlegt að víkja um of frá því, sem alþíngið gagngjört og í einu hljóði hafði beðið um að gjört mætti verða til verndar þeim enum mikilsverða atvinnuvegi, sem landið hefir af æðarfuglinum, og sem samkvæmt er löggjöf þeirri, er híngað til hefir verið í gildi.

Því ber ei heldur að gleyma, að bann það, sem lagt er á æðarfuglaveiði, gildir einnig um veiði þessa á eigin lóð, og stendur því allt öðruvísi hèr á, enn þegar ræða skal um ólöglega veiði, eins og hún almennt viðgeingst. Sèrílagi verður því ekki viðkomið, þegar óleyfileg æðarfuglaveiði er framin á eigin lóð, að gjöra mismun á einstökum laga-afbrotum. Auk þessa gæti veiðin hæglega orðið svo arðmikil, að hún kynni að gjöra betur enn vega upp á móti sekt þeirri, er áður er nefnd, þó hún væri tvöfölduð, en um skaðabætur getur hèr ekki orðið spursmál.

## Um 12tu grein.

(tilsk. 13 Júní 1787, kap. III. § 7).

Hrognkèlsi eru víða á vorum veidd í netum á Íslandi. Þau gánga nærri landi, og eru því net lögð fyrir þau rètt fyrir utan fjörumál. Nú er æðarfugl vanur á vorum að leita hinna sömu staða, og með því hann opt stíngur sèr niður, flækist hann hæglega í hrognkèlsanetunum og deyr af því. Nefndin hèlt þessvegna, að banna ætti öll netlög á tilteknu svæði frá varplöndunum, þó einúngis í hinni svonefndu varptíð, sem reiknað er að nái frá byrjun Maí-mánaðar til útgaungu Júlí-mánaðar, eða frá því æðarfuglinn fer fyrst að koma í varplöndin og þángað til hann fer þaðan aptur með úngum sínum.

Að banna netlög í leingri tíma þótti ísjárvert vegna þess að innifli hrognkelsanna eru, að minnsta kosti á suðurlandi, brúkuð til beitu fyrir þorskinn, og kynni það því að skaða þorskaveiði, ef bönnuð væri netlög fyrir hrognkelsi í Aprílmánuði, þó æðarfuglinn sè þá vanur að fara að safnast undir landið. Svo ekki vanti ákvörðun um það, hversu lángt skuli vera frá eggveri á báðar hliðar þángað sem net má leggja, þótti hæfa að ákveðið væri, að fjarlægð sú, 2 hundruð faðma tólfræð, sem tekin er til í tèðri grein, skuli ráða á báðar hliðar, og svo beint á sjó út frá eggverinu.

Um 13. grein.
(tilskip. 13 Júní 1787 kap. III. § 7).

Það hefir máskè leingi viðgeingizt á Íslandi að veiða æðarfugl í netum, að minnsta kosti eru nefnd net í tilskipan 13 Júní 1787 III. kap. § 7. Net þessi eru nú mjög skaðvænleg fyrir æðarfuglinn; fyrir því hèlt nefndin, að banna ætti brúkun þeirra stránglega, og að sektir þær, er nefndar eru í greininni, eingan vegin sè ofháar. Þess var og getið, að sú stærsta upphæð sektarinnar fyrir afbrot, í 5ta sinni framið, skjaldnast mundi verða eins stór, og sú, sem á er kveðin í úrskurðinum frá 17. Júlí 1816, 5tu gr., fyrir skot, er að sönnu geta fælt fuglinn meira frá um stund, en þó ekki munu vera saðlegri fyrir æðarfuglinn til lángframa, enda verður ekki farið eins leynilega með þau og með netlagnir.

Í stjórnarráðunum kom það að vísu til umræðu, hvort ákvarðanir þessar ekki væri of strángar, þegar hegníng svo bættist ofaná, sem lögð er við dráp æðarfugla; svo þótti og það, er ákveðið var um að sektin skyldi hækka, ef brotið væri optar enn einusinni, ekki samkvæmt grundvallarreglum veiðilaganna um það efni.

En þegar litið er til þeirra skaðlegu afleiðínga fyrir landsins velmeigun, sem brúkun neta þessara til æðarfugla veiði hefir í för með sèr, varð ekki betur sèð, enn að uppástúnga nefndarinnar, eptir ástæðum þeim sem taldar vóru, sè á góðum rökum byggð, og að brúkun netanna því megi álíta sem einstaklegt og stærra afbrot, enn nokkra aðra óleyfilega veiði á Íslandi. Að öðru leyti rèði rentukammerið til, að sú ákvörðun yrði gjörð í þessari grein, að, ef einhver brýtur optar enn

einusinni, þá skuli að eins tvöfalda sektina, þegar hann verður dæmdur fyrir ítrekaða yfirsjón.

Um 14. grein.
(Úrskurður 17. Júlí 1816, 1, 2 og 3 grein).

Grein þessi er tekin úr úrskurðinum frá 17. Júlí 1816, 1, 2 og 3 grein, þó er nokkru breytt bæði í tilliti til stærðar sektanna, og hvernig þeim eigi að verja, því úrskurðurinn leggur við 3 ríkisdala sekt fyrir hvert skot, sem hleypt er úr byssu nær æðarfugla eggveri í varptíðinni, frá 30. Apríl til 1. Ágúst, enn til er tekið, en 2 dala sekt fyrir hvert skot á öðrum tíma ársins; en nefndin hèlt, að bæði mætti lækka nokkuð sektir þessar að skaðlausu, og líka takmarka þær við sjálfa varptíðina, svo mætti og leggja stærri sekt við skotum í sjálfu eggverinu og í grend við það, heldur enn þegar skotið er leingra í burtu, skyldi því gjalda 2 ríkisdali fyrir hvert skot á sjálfu varplandinu eður þegar skemmra væri þángað enn 2 hundruð faðma tólfræð, og var það eptir Jónsb. Llb. 57. kap. takmark það, er friðhelgi eggvers skyldi ná til, en 1 ríkisdal, ef skotið er leingra frá, en þó nær enn í þúsund faðma fjarlægð.

Sömuleiðis áleit nefndin, eins og áður er ávikið, ekki naudsynlegt til verndar eggverum ad banna skot í grennd við þau á öðrum tíma árs, enn meðan á varptíðinni stendur; því á öðrum árstímum eru fuglar á ferð íkríngum strendur landsins, og er það því sjálfsagt, að afmá á óþarft bann, sem er almennum veiðirètti til tálmunar; en sé óleyfileg veiði framin með skotum á öðrum tíma árs, á að fara með það samkvæmt ákvörðunum þeim, sem um það eru gjörðar í frumvarpi nefndarinnar.

Samkvæmt þessu hèlt nefndin þaraðauki, að sektir þær, sem ákveðnar eru í 3. grein úrskurðarins frá 1816 fyrir skot í varptíð á friðhelgum stöðum, þarsem hlunnindi eru af varpi annara fugla, mætti lækka allt að 1 ríkisdal fyrir hvert skot, og að ekki ætti að leggja sekt við sèrílagi fyrir skot í grennd við þá staði, nema í sjálfri varptíðinni.

Rentukammerinu þótti að sönnu ákvarðanir greinar þessarar nokkuð flóknar; svo þótti það einnig ísjárvert, að leggja sekt við, þó hleypt sè úr fallbyssu í grend við varpland, þareð skipverjar kynni að eiga örðugt með að fá vitnezkju um,

að varplönd væri þar í grend. Eingu að síður virtist téðu stjórnarráði ekki næg ástæða til að gjöra neina breytíng á greininni, þareð útlend skip ekki meiga koma þar við land, en skip þau, sem árlega sigla upp landið, geta í blöðunum feingið vitneskju um ákvörðun þessa.

Að síðustu er svo ætlanda, að ákvarðanir úrskurðarins frá 17. Júlí 1816, sem að mestu er samhljóða því, sem hèr er farið fram á, nema að því leyti þær eru harðari, sèu optast kunnar skipverjum þeim, er til Íslands koma.

Að öðru leyti er auðvitað, að tèðar ákvarðanir ekki eiga við um herskip, hvorki útlend nè dönsk, er til Íslands koma. Skipum þessum er stundum falið á hendur að hafa gætur á fiskiveiðum, og þurfa þau þá stundum að hleypa úr fallbyssum til þess að halda lögreglu, en þessu yrði ekki komið við, ef ákvörðun sú, sem áður er getið, ætti að gilda um herskip.

Samt þótti eiga vel við, að þessa væri getið með berum orðum; og mætti að öðru leyti gefa þetta til vitundar skipstjórnarmönnum hinna dönsku herskipa, er sigla upp Ísland, í erindisbrèfi þeirra, sem og hitt, að menn láti sèr annt um, svo sem verður, að hafa gætur á, að breytt verði eptir ákvörðun þessari.

## Um 15. grein.

### (Úrskurður 17. Júlí 1816, 4. gr.)

Til alþíngis, sem haldið var árið 1845, kom bænarskrá úr Strandasýslu og var undirskrifuð af 81 manni. Var þar beiðzt þess, að landselur (*phoca vitulina*), sem er sú seltegund, er úrskurðurinn frá 17. Júlí 1816 4. gr. sèrílagi hefir fyrir augum, mætti að lögum verða friðhelgur fyrir skotum á öllum tímum árs og um land allt. Bænarskrár líks innihalds hafði nefndin einnig feingið úr Barðastrandar, Dala og Snæfellnessýslum, og efaðist hún ekki um, að menn úr fleiri sýslum landsins mundu vera á sama máli í þessu efni, þareð frá mörgum stöðum höfðu heyrzt kvartanir um, að selir væri opt skotnir með byssum, og að selveiði í nótum og með rothöggum á þeim stöðum við sjó, er vel væri fallnir til þeirrar veiði, með því móti eyddist eða mínkaði stórum, og væri að því ekki allítill skaði jarðarábúendum, þarsem landslagi er svo varið, að þeir geta notað selveiði með áðurnefndu móti. Jafnvel þó nefndin nú væri á því, að kvartanir þessar væru ekki með

öllu ástæðulausar, og að ávinníngur sá, sem fæst við skotveiði á selum, máske ekki sè eins stór og skaði sá, sem jarðhaldendur verða fyrir, á þeim stöðum, þarsem áður var selveiði í nótum eða með rothöggum, þorði nefndin þó ekki, sem stendur, að taka meira til enn að friðhelga skyldi þá staði, þarsem slík selveiði er, fyrir byssuskotum á því svæði, sem nær liggur en fjórðúng mílu.

Samt þótti nefndinni margt mæla fram með því, að friðhelga ætti landsel allstaðar fyrir skotum, einkum á tímabilinu frá 30. Apr. til 13. Sept., er selirnir eru vanir á þeim tíma að leggja úngum sínum og klekja þeim upp á skerjum.

Þarsem nefndin þó hefir látið uppástúngu þá, sem nefnd var, sitja í fyrirrúmi í grein þessari, þá eru færðar til fyrir því þær ástæður: að nefndin ekki gat feingið neina vissu um hver mismunurinn er milli ábata þess, er skotveiði sela almennt gefur af sèr, og þess, er landsdrottinn missir í við slíka skotveiði; að ætíð veitir örðugt lángt frá landi að hafa gætur á að ekki sè brotið á móti slíku banni sem því, er hèr ræðir um, einkum þegar töluverður ábati býzt á aðra hönd; að not þau sem höfð verða á selum og æðarfugli einganveginn eru hvort öðru svo lík, að fyrir þá sök beri að lýsa friðhelgi hvorutveggja á sama hátt; og að síðustu, að ætíð sè ísjárvert, að takmarka veiðirètt almennings á því svæði, sem liggur fyrir utan veiðilöndin sjálf, og einkum út á sjó, þegar ekki því meira er í húfi.

Þareð rentukammerið ekki var nógu kunnugt landslagi og kríngumstæðum til að geta dæmt um ákvarðanir greinar þessarar, var einúngis sú breytíng gjörð á uppástúngunni, að ekki skyldi friðhelga neinn stað áður kunnugir og óvilhallir menn hafa lýst því yfir, að staðir þessir sèu vel fallnir til slíkrar veiði; enda mun og nefndin hafa ætlazt svo til, einsog eðlilegt er, að dæmt sè um, hvort staðurinn sè vel fallinn til selveiði áður friðhelgi hans sè lýst.

### Um 16. grein.

Landselurinn (*phoca vitulina*), sem talað er um í undangángandi grein, er uppalinn við land og heldur sèr árið umkríng við strendur landsins. (Svo er og til útselur (*phoca foetida*) sem einnig er innlendur, en er þó tíðum vanur að halda sèr leingra í burt frá ströndum landsins). Þá eru og,

einkum á norðurlandi, aðrar seltegundir, svosem vöðuselur eður hafselur (*phoca grönlandica*), kampselur (*phoca barbata*) og hrínganór. Selur þessi kemur í stórum vöðum einsog fiskivöður, og er þá veiddur með ýmsu móti af landsmönnum, bæði með byssuskotum, skutlum og í nótum.

Hin 16. grein hefir nú einkum fyrir augum hina seinast nefndu selaveiði í nótum, þareð vafi hefir verið á um lögmæti hennar, einkum í Þíngeyjarsýslu, einsog sjá má af skjali nokkru, sem ritað var alþíngi, en síðan selt í hendur nefndinni, og var það með 12 nöfnum undir. Var það tilgángur skjals þessa að sýna fram á: að um farsel ætti allt hið sama að gilda og um fiskivöður; að fyrir þá sök sè öllum heimilt að veiða farsel fyrir annars manns landi, einsog netafisk í Gullbríngusýslu; að löggjöf sú, sem nú er í gildi um selaveiði fyrir annars manns landi, einúngis hafi landselinn fyrir augum, því þegar Jónsbók var samin, þekktu menn hvorki farsel á Íslandi nè í Noregi; að jarðhaldendur heimti eptir nótlög af landi eða fyrir landi þeirra jafnvel fimtúng veiðar, án alls tillits til hve miklum kostnaði varið hefir verið til veiðinnar, og að leiga þessi sè svo afar há, að hún öldúngis hindri atvinnuveg þenna, þar sem ástundum jarðarábúandinn sjálfur hvorki hefir vilja nè efni til að hagnýta sèr hann sjálfur; og að sömu reglu megi fylgja um marsvínarekstur, síldarveiðar og þesskonar, en atvinnuvegir þessir mundu missast, ef ekki mætti nota annars manns lóð þegar tækifæri býðst.

Nefndin hlaut að fallast á margar af þessum athugasemdum, en hèlt, að ákvarðanir greinar þessarar mundi miðla rèttilega málum milli hvorutveggja hlutaðeigenda.

Það kynni að vísu virðast ísjárvert, að ábúandi skuli vera skyldur til að ljá öðrum nótlög sín, og að aðrir menn útífrá skuli ákveða leiguna, þar sem hann þó á að geta hagnýtt sèr netlögin á sama hátt og lóðina sjálfa; en nefndin hèlt samt, að annað væri ekki til úrræða, enda væri nægilega búið um rètt ábúanda, þarsem hann bæði gæti samið sjálfur um leiguna við nóteiganda eptir samkomulagi, og þaraðauki væri einráður um veiði á þeim hluta sjáfar, sem liggur næst landi hans, og tiltekinn er í greininni, og er þessu öðruvísi varið, eptir því sem viðgeingst, um þorskaveiði í netum. Lík ákvörðun þessari er og í opnu brèfi 28. Dec. 1836 11. gr., enda nær skyldan ekki leingra enn til þess, þegar svo er ástatt, að ábúandi,

getur verið án nótlaganna sèr að skaðlausu. Samt þótti ísjárvert að láta ábúanda sjálfan ákveða, hvort hann gæti verið án nótlaganna eður ei, og varð því, einsog vant er í þessu efni, að fara eptir mati óvilhallra manna. Ákvörðunin í niðurlagi greinarinnar er svo undirkomin, að beðizt var í bænarskrám þeim, er áður eru nefndar úr Breiðavíkurfirði, að frið·helga mætti einnig vöðusel fyrir skotum á þeim stöðum, þar sem venja er að veiða hann með skutlum', en nefndin hèlt að byssuskot í vöðuna, til að tvístra henni, mundi verða til óbætanlegs skaða þeim er skutla brúka. Svo þótti og eiga við, í niðurlagi greinarinnar að leggja hegníng við ef brotið væri ímóti, annaðhvort 1 ríkisdals sekt fyrir hvert skot, eða sömu sekt og ákveðin er í niðurlagi undanfarandi greinar, þó þótti rèttara að velja hið fyrrnefnda.

## Um 17. grein.

(Eyrindisbrèf hafnsögumanna (lóðsa), dagsett 1. Dec. 1831 13. grein).

Einsog grein þessi í fyrstu var samin af nefndinni, var hún, að fáeinum breytíngum í fyrirkomulagi hennar undanteknum, tekin úr 13. grein eyrindisbrèfs þess, er stiptamtmaðurinn á Íslandi gaf út fyrir hafnsögumenn í Reykjavík og Hafnarfirði, þann 1. Decbr. 1831. Þó var, til þess að skipstjórnarmenn ekki gætu kennt um ókunnugleik sínum, jafnvel eptir að þeir eru komnir í höfn, bætt við þeirri ákvörðun, sem er öðruvísi enn ákvörðunin í úrskurði 17. Júlí 1816 § 2, að þó þeir ekki hafi leiðsögumann, er getur sagt þeim til einsog þarf, skuli þeir samt sem áður bera ábyrgðina, þegar skotið er úr byssu frá skipinu.

Þess ber fyrirfram að geta, að orð þau í frumvarpi nefndarinnar til greinar þessarar: „varplönd þau eða aðrir staðir sem notaðir eru til selveiði“, virtust ekki að vera sem bezt valin, þar svo má ætla, að æðarfugla eggver hafi einnig átt að vera innibundin í orðum þessum. Fyrir þá sök var fyrirkomulagi greinarinnar breytt í rentukammerinu.

Þvínæst var bæði stjórnarráð þetta og hið danska kansellí á því máli, að optast mundi verða bágt að komast eptir því, eptir innihaldi greinarinnar, hver ábyrgðina ætti að bera, hvort heldur leiðsögumaður, eða skipstjórnarmaður, þegar leiðsögumaður ber fyrir sig, að hann hafi sagt skipstjórnarmanni til,

einsog vera bar; kynni þá hæglega svo að fara, að hvorutveggi yrði dæmdir sýknir sakar og næði þá lagagreinin ekki tilgángi sínum. Ef ákvörðun vantaði um þetta, mundu rèttirnir eflaust dæma, að skipstjórnarmaður skyldi bera ábyrgðina, þar hann sè skyldur að kynna sèr lög þess lands, sem hann ætlar að sigla upp, og að hann ætti að leiða hjá sèr slíkar athafnir, ef hann ekki hefir vissu fyrir sèr um það, hvort þær sè leyfilegar.

Greinin lagði og skipstjórnarmanni ábyrgðina á herðar, þegar hann ekki notar leiðsögumann; en hann á þó ekki að hafa leiðsögumann til þess að fá þekkíng á landslögunum.

Önnur eins ákvörðun og sú sem stúngið var uppá, kynni og að hafa íllar afleiðíngar að því leyti skipstjórnarmenn, er koma við land, kynnu í öðrum tilfellum að bera fyrir sig ókunnugleik sinn á landslögunum. Það virtist því rèttast, að láta skipstjórnarmann bera ábyrgðina, þegar brotið er á móti lögunum, hvernig sem ástendur, en að hann eigi aðgánginn að leiðsögumanni, þegar hann getur sannað, að leiðsögumaður ekki hafi aðvarað hann, einsog vera bar.

Samkvæmt þessu er frumvarpi nefndarinnar breytt.

### Um 18. grein.
### (Úrskurður 17. Júlí 1816, § 6. og 7).

Eptir úrskurði 17. Júlí 1816 § 6. átti sá, sem sekur varð um ólöglega veiði með byssu, þegar í fyrsta sinni að hafa fyrirgjört byssunni. En nefndin hèlt að einúngis sá, sem annaðhvort með dómsatkvæði eða úrskurði yfirvalds (tilskipan 24. Jan. 1838 § 10.) hefir sektast fyrir óleyfilega veiði, ætti, ef hann brýtur á ný, að hafa fyrirgjört veiðitólum sínum, hvort sem það eru byssur, net eða önnur tól, og skyldi sveitarsjóðurinn, þarsem veiðin er framin, eignast þau.

Í tilskipun 13. Júní 1787 kap. III, § 7, er sagt svo fyrir, að af sektum þeim, sem koma inn fyrir friðun eggvera og æðarfugla yfirhöfuð, skuli sá er kom því upp, hver brotið hafði, eignast $\frac{2}{3}$ parta enn fátækir sveitarinnar $\frac{1}{3}$ part. Þarámóti heimilar úrskurður 17. Júlí 1816, 7. gr. fátækum $\frac{2}{3}$ parta, en þeim er uppljóstaði $\frac{1}{3}$ part af sektunum. En nefndin var á því, að sveitarsjóðurinn ætti að eignast allar sektir, þareð það eptir hinni nýjari löggjöf ekki er venja, að sá skuli eignast neitt er ljóstar upp afbrotinu, enda kynni það og að vera í-

sjárvert fyrir siðferði manna og heldur ekki forsjálegt, að hvetja meðbræður til að ljósta upp hver um annan, því sem þeim verður á, enda mundi og lítill árángur verða að slíkum hvötum, því nefndinni er ekki kunnugt, að nokkurt mál um friðun æðarfugla hafi, síðan árið 1787, verið höfðað eptir ávísun annara um það, hver brotið hafi.

Þareð sá sem í óleyfi veiðir í netum einnig á að hafa fyrirgjört netunum, þótti rentukammerinu rèttast, að þetta væri tekið fram með berum orðum, og er greininni breytt samkvæmt þessu.

Að öðru leyti ber þess að geta, að eptir tilskipan fyrir Danmörku dagsettri, 20. Maí 1840, § 27, eignast sá veiðitólin, er tekur skotmann.

### Um 19. grein.
### (opið brèf 1. Marts 1843).

Innihald greinar þessarar er hérumbil hið sama og fyrir er skipað í opnu brèfi 1. Marts 1843.

### Um 20. grein.

Grein þessi er tekin úr tilskip. 20. Maí 1840, § 37, sbr. tilsk. 11. Apr. 1840, § 30, og er þar einkum haft fyrir augum þegar nývirki, sem gjörð eru í varplöndum, eru skemð af hrekkjum, þegar stolið er eggjum, dún eða fugli eða seli úr nótum landeiganda, eða netinu sjálfu eða öðru þesskonar.

### Um 21. grein.

Þareð ekkert orð í íslenzku svarar til hins danska orðs: „Jagt“, en orð þetta innibindur ekki, einsog íslenzka orðið „veiði“, í sèr fiskiveiði og hvalveiði, þótti nauðsyn að greina til, að öll lagaboð um fiskveiði og hvalveiði skuli standa óröskuð.

---

# IV.

## Frumvarp

til opins brèfs um það, hvernig endurgjalda skuli hinum konúnglega jarðabókarsjóð alþíngiskostnaðinn og önnur þar við riðin útgjöld.

---

1. grein.

Fæðispenínga alþíngismanna og endurgjald ferðakostnaðar þeirra, sem um er getið í byrjuninni á 79. gr. í tilskip. 8. Marts 1843, og annan kostnað, sem af alþíngi leiðir og ekki skal lenda á ríkissjóðnum eptir úrskurðum Vorum 19. og 23. Apr. 1845, skal, meðan ekki er önnur ráðstöfun gjörð, endurgjalda jarðabókarsjóð Vorum, sem geldur hann í bráð, á þann hátt, að tveim þriðjúngum af öllum kostnaðinum skal jafna á allar jarðir á landinu, eptir þeim dýrleika, sem þær hafa í jarðabókinni 1760, en þriðjúnginum á lausafjár tíundar hundruðin.

2. grein.

Það, sem jafnað er á jarðarhundruðin, eptir því sem nú var mælt, skulu leiguliðar greiða en eigendur endurgjalda þeim.

---

## Ástæður

fyrir frumvarpi til opins brèfs um það, hvernig endurgjalda skuli hinum konúnglega jarðabókarsjóð alþíngiskostnaðinn og önnur þar við riðin útgjöld.

Nefnd sú af íslenzkum embættismönnum, er árið 1841 samdi álitsskjal um frumvarp til alþíngis-tilskipunar þeirrar,

er síðan er til orðin og gefin er út 8. Marz. 1843, hafði í einu hljóði ráðið frá, að kostnaður sá, er af alþíngi rís, yrði beinlínis lagður á landið, en þarámóti stakk meiri hluti nefndarmanna uppá því, að sá kostnaður yrði greiddur með skatti, er lagður væri á hverja lest kaupskipa þeirra, sem kæmu til Islands, og einn af nefndarmönnum, að hann yrði goldinn annaðhvort eingaungu af skipsfarminum eða bæði af farmi og lestatölu.

Hinsvegar var kansellíið og rentukammerið á einu máli, og kansellíið, sem lagði málið á konúngs vald, mælti móti nefndarmönnum en með því, að alþíngisskattur yrði beinlínis lagður á landið, þó hèlt kansellíið að ekki ætti þá þegar að gjöra þarum fasta ákvörðun, en sem konúngur hafði fallizt á þetta, var það að lögum gjört í hinni 79. gr. alþíngistilsk. að alþíngiskostnað skyldi fyrirfram greiða af jarðabókarsjóðnum, og svo endurgjalda honum aptur með því móti, sem konúngur vildi fyrirskipa eptir að honum hefði komið til handa álit alþíngisins.

Samkvæmt þessu var í allrahæstum úrskurði frá 23. Apr. 1845 skorað á alþíng að segja álit sitt þarum, og hefir þíngin í álitsskjali sínu ekki þótt tiltækilegt að þínghalds-kostnaðurinn yrði endurgoldinn með álögum á kaupskip þau er til Íslands kæmu, einnig hefir þíngið verið því mótfallið að sá kostnaður yrði lagður á fasteign landsins eða lausafjártíund; á fasteignina, fyrir þá sök, að jarðadýrleika þeim, sem nú er, er í svo mörgu ábótavant og að mikill hluti fasteigna annaðhvort er ómetinn eður álitinn undanþeginn útgjöldum til alþjóðlegra þarfa, og svo vegna þess að jarðagózskatturinn lenti að líkindum á leiguliðum en ekki á landsdrottnum; og á lausafjártíund, fyrir þá sök, að hún er undir því komin hvernig gjaldþegnar telja fram, auk þess sem hún er undirstaða því nær allra alþjóðlegra útgjalda um þessar mundir, og á því undir þúngu oki að rísa. Samt sem áður hefir þó alþíngi þótt að skylda bæri til að kostnaður þessi yrði lagður á jarðagózið, og þareð eingin vissa væri fyrir, hversu mikið aptur ynnist í skarðið með því, að ákveða sýslumönnum föst laun, samt þareð alþíng vildi ekki hætta á að beiðast þess að endurgjald feingist uppí alþíngiskostnaðinn með því að leggja skatt á jarðir þær, sem að öllu eður að mestu leyti eru undanþegnar tíund, svo hefir þíngið með 18 atkvæðum gegn 5 stúngið uppá:

að lagður væri 4 pCto-skattur á allt það jarðagóz, er að erfðum eða á annan hátt geingur frá manni til manns, lendir skattur sá, eins og alþíng kveður að orði, á því jarðagózi sem lítið er áður íþýngt með opinberum álögum, hann er ei neitt bundinn við jarðamatið, og kèmur ekki niður á öðrum enn til er ætlað.

Skattur þessi gjörir þíngið, eptir ágezkun sinni, að verða muni að upphæð annaðhvort 4200 rbd. eða 4800 rbd. á ári hverju, og muni þannig nægja ef ½ pCto-skattur sá, sem lagður er á í tilsk. 8. Febr. 1810, yrði gefinn eptir; skyldi bæarfógetinn í Reykjavík og sýslumenn taka þenna skatt af mönnum, og til þess greizlan væri þess vissari mætti leggja sektir við, ef kaupbrèfi væri ekki þínglýst á hinu fyrsta þíngi eptir að það er gefið út. En þareð það er að nokkru leyti óvisst, bæði hversu mikill yrði þessi 4 pCto-skattur, og svo alþíngiskostnaðurinn, hefir þíngið ætlað, að það sem á vantaði mætti fá með því að taka tvo þriðjúnga þess af hverju fasteignarhundraði, er leiguliðar skyldu greiða enn landsdrottnar endurgjalda þeim, og einn þriðjúng af hverju lausafjárhundraði.

Alþíngið hefir þannig gjört þá uppástúngu:

1. Að kostnaður til alþíngishaldsins, samkvæmt alþíngistilskipunarinnar 79. grein, fyrirfram lúkist úr jarðabókarsjóðnum.
2. Að lúkning kostnaðarins sè jarðabókarsjóðnum endurgoldin með 4 rbd. skatti af hverju 100 rbd. virði í fasteign, er breytir eiganda að arfi, eða á annan hátt.
3. Að ½ proCto-skattur af erfðri eða afhentri fasteign eptir tilsk. 8. Febr. 1810, aftakist.
4. Að þínglýsingar afsalsbrèfa, er snerta fasteignir, lögskipist, að viðlögðum tilbærilegum sektum.
5. Að sýslumenn og bæjarfógeti i Reykjavík innkrefji þann í tölulið 2 nefnda skatt, og gjöri jarðabókarsjóðnum skil fyrir honum við hvers árs lok.
6. Að það, sem á mætti skorta endurgjaldið eptir tölulið 2, jafnist að ⅔ hlutum á tíundarhundruð fasteignarinnar, enn að þriðjúngi á lausafjárins hundraðatölu.
7. Að það, sem eptir tölulið 6 er lagt á tíundarhundruð fasteignarinnar, lúkist af ábúendum jarðanna, mót endurgjaldi til þeirra af landsdrottni.

Að lyktum hefir alþíng lagt það á konúngs vald, hvort ráðstöfun þessi skuli verða að staðaldri eða einúngis til bráða byrgða.

Þegar kansellíið eptir boði konúngs skýrði honum frá máli þessu, gat það þess meðal annars, að 4 pCto-skattur sá, sem alþíng hefði stúngið upp á, ætti ekki allskostar vel við. Stjórnarráð þetta gat þess, að sèrhvert gjald, sem lagt væri á eignasölu og afhendíngu, mundi rýra verð þeirra, og einkum mundi jafnhár skattur, sem þessi, verða seljendum erfiður og kaupum og sölum til fyrirstöðu, og þannig hamla framförum landsmanna; einnig mundi hann verða þess ollandi, að menn færi að draga dul á afhendíngu jarðagózins, eða segðu andvirði þess minna, en það væri. Að leggja sektir við, ef afsalsbrèfum væri ekki þínglýst, þótti stjórnarráðinu ekki árennilegt, með því líka því, sem til væri ætlazt, yrði ekki fremur fyrir það framgeingt. Að svo miklu leyti sem skattur þessi skyldi goldinn af erfðafè, mundi hann þykja enn ósanngjarnari, einkum þar sem ofan á bættist skattur af útörfum.

Hvað hið 3ja atriði uppástúngunnar snertir, varð ekki heldur fallizt á það, þar eð af því mundi leiða, að nokkur hluti kostnaðarins lenti á hinum konúnglega sjóði.

Hins vegar hèlt kansellíið, að fylgja mætti hinu 6ta atriði í uppástúngu alþíngis, þó ekki svo sem til vonar og vara, ef hinum fyrri atriðum í uppástúngunni yrði slept, heldur án alls tillits til þeirra; og þó það reyndar væri ekki sem allra bezt tilfundið, hefði það samt nokkra þýðíngu, meðan jarðabyggíngar þær, sem nú tíðkast, væru í gildi, að nokkur hluti skattgjalds þessa væri lagður á fasteignir. Einnig hèlt kansellíið, að fara mætti eptir hinu 7da atriði í uppástúngunni, án þess nokkuð væri þar við aðgæzluvert.

Rentukammerið fann sömu annmarkana sem kansellíið við skatt þann, er alþíng hafði stúngið upp á, og var einnig á því máli, að jafna skyldi kostnaðinum niður að ⅔ á jarðagózið, og skyldu leiguliðar greiða, en landsdrottnar endurgjalda þeim; og að ⅓ á lausafè, jafnvel þótt sá skattur, sem skipt yrði niður á jarðahundruð eptir jarðamatinu frá 1760, mundi í sumum sýslum verða gjaldþegnum þýngri en í sumum; en þar um var sú athugasemd gjörð, að það yrði einúngis um stundar sakir, sem skatturinn yrði heimtaður eptir þessum mælikvarða, þángað til búið yrði að breyta og koma föstum fæti undir skattgjaldslög Íslands, eins og er í ráði.

Þegar nú þannig tveim þriðjúngum þessa skatts væri jafnað niður á jarðahundruðin, varð spurníngin því næst sú, hverjar

jarðir ættu að lúka skattinum; og skyldu jarðatíundir, eins og alþíng hafði stúngið upp á, vera undirstaðan, yrði nákvæmar til að taka, hvað tíundarhundrað og tíundarfrelsi skyldi tákna; og hèlt rentukammerið, að einúngis væri takandi í mál, að þær einar jarðir væru lausar við þenna skatt, sem eru undanþegnar öllum tíundum. En jafnframt hèlt rentukammerið, að jarðatíundir ættu ekki að vera undirstaða (Basis) skatts þessa, og fèllst kansellíið að öllu leyti á það, þar eð það yrði ekki viðurkent, að allar hinar mörgu Skálholtsstóls jarðir — en þær eru 7,986 ℔ af 84,268 ℔ eður jarðahundruðum alls landsins — þó þær hefðu verið seldar með fullkomnu tíundarfrelsi, skyldu með því móti hafa eignazt rètt til að vera lausar við allar álögur, þegar stundir liðu fram; þar eð ekki heldur hinar aðrar jarðir, sem eingri tíund svara, vegna þess þær liggja undir kirkjur, presta, fátæka menn eður spítala, ættu fyrir þá sök að vera lausar við þann kostnað, sem rís af þjóðstiptun þeirri, er öllu landinu horfir til gagns, og þar eð jafnlítil ástæða var til að undanþiggja þau býli á konúngsjörðum frá skattinum, sem að sönnu ekki svara tíund, en sem fjárhirzla konúngs þó geldur tíund fyrir til þeirra, sem við henni eiga að taka. Ábýli þau hin tíundarlausu, sem ekki eru metin til hundraða, hlutu samt, einsog gefur að skilja, að vera laus við þenna skatt, eins og hvert annað gjald, sem við jarðamat er bundið.

Jafnvel þó kostnaður sá, sem hið fyrsta alþíng hafði í för með sèr, sem samtals var 6640 rbd., og upp í hvern til er getið að fást muni, þó seinna verði, 1000 rbd. fyrir alþíngistíðindin — þurfi sem fyrst að endurgjaldast, og eingin nauðsyn bæri til, eptir fyrirmælum hinnar 79. greinar í alþ. tilsk. 8. Marts. 1843, að skjóta þessu máli að nýju til alþíngis, þó uppástúnga þess um kostnaðinn gæti ekki orðið tekin til greina, þá hefir Hans Hátign Konúngurinn ekki samt viljað ráða máli þessu til lykta fyr en alþíngi hefði gefizt færi á að skýra nákvæmar frá áliti sínu um þetta efni.

Samkvæmt því, sem nú var sagt, var samið frumvarp til opins brèfs um það, hvernig endurgjalda skuli hinum konúnglega jarðabókarsjóð alþíngiskostnaðinn og önnur þar við riðin útgjöld. Samþykti konúngur frumvarpið allramildilegast 12. d. Maím. 1847, og fer það nú þannig búið til alþíngis.

---

# V.

# Frumvarp

til opins brèfs um kostnað þann, sem leiðir af kjöri alþíngismanna framvegis, og fl.

## 1. grein.

Kjörstjórar og þeir menn aðrir, sem fyrir kosníngum eru á landi Voru Íslandi, skulu hafa 1 rbd. í fæðispenínga, meðan þeir eru á kjörstefnu. Sama gjald ber þeim og, meðan þeir fremja þau störf, sem um er getið í 18. og 22. grein tilskipunarinnar 8. Marts 1843, en þó svo að eins, að þeir eigi yfir leingri veg að fara, en eina mílu.

Á ferðum sínum til þessa starfs, sem ekki eru leingri, en nú var greint, skulu þeir og allir hafa 1 rbd. í fæðispenínga, og að auki endurgjald fyrir ferðakostnað eptir sanngjörnum reikníngi, en á kjörstefnuferðum þeir einir, sem ekki eiga kosníngarrètt.

## 2. grein.

Ef líkt stendur á um vegaleingd, skal kjörstjórinn í Skaptafellssýslu og aðstoðarmenn hans hafa sömu fæðispenínga og endurgjald ferðakostnaðar að auk, er þeir ferðast til stefnu þeirrar, sem um er getið í 35. grein alþíngistilskipunarinnar, og meðan á henni stendur og á heimferð sinni. Þó skal kjörstjóri ekki kveðja fleiri af þeim, sem fyrir kosníngum eru, til stefnu þessarar, en einn mann úr hverjum kjörhluta, og skal það vera sá þeirra, sem kostnaðarminnsta á ferðina, en hinir aðrir, sem koma kunna til stefnunnar, mega hvorki reikna sèr fæðispenínga nè endurgjald ferðakostnaðar.

## 3. grein.

Kjörstjórar skulu hafa sanngjarnlegt endurgjald fyrir fylgdarmannskaup á kjörstefnuferðum sínum, en aðstoðarmönnum þeirra ber ekki slíkt endurgjald, nema þeir eigi yfir torsótt-

an veg að fara og hættulegan. Allir, sem fyrir kosníngum eru, skulu eiga kost á að reikna sèr endurgjald fyrir flutníngskaup um sjó eða vötn.

### 4. grein.

Af þeim mönnum, sem hæfir eru til aðstoðar eptir 16. gr. í tilsk. 8. Marts 1843, skulu kjörstjórar velja þá, sem gjöra mundu kjörþínginu minnstan kostnað með ferðum sínum.

### 5. grein.

Ef því verður ekki komið við að prenta kjörskrárnar, eptir 23. gr. í alþíngistilskipuninni, skulu kjörstjórar vera skyldir til ókeypis að láta skrifa þær, eptir því sem við þarf.

### 6. grein.

Amtmenn skulu nákvæmlega rannsaka alla kjörreiknínga í amtinu og samþykkjast þeim, áður andvirði þeirra sè goldið hlutaðeigendum.

---

# Ástæður

## fyrir frumvarpi til opins brèfs um kostnað þann, sem leiðir af kjöri alþíngismanna framvegis.

Samkvæmt allrahæstum úrskurði frá 23. Apr. 1845 hefir alþíng allraþegnsamlegast sagt álit sitt um upphæð fæðispenínga þeirra, sem kjörstjórar og aðstoðarmenn þeirra skuli hafa fyrir störf sín við kosníngar alþíngismanna. Tilskipun frá 8. Marts 1843 hefur ekkert þar um ákveðið, en í 79. grein segir að eins, að kostnaður sá, sem leiði af kosníngum, skuli goldinn af jafnaðarsjóðum amtanna.

Alþíngi hefir þótt nauðsýn til bera að máli þessu, er menn hafa haft margbreytt álit á, yrði skipað á einn veg yfir allt land; það hefir sett sèr sem grundvallarreglu, er menn yrðu að hafa hliðsjón af, að kjörstjórnarmenn einúngis yrðu skaðlausir af kostnaði sínum, og í álitsskjali sínu allraþegnsamlegast gjört þessar uppástúngur:

1. Samhuga: að allir meðlimir kjörstjórnarinnar fái 1 rbd dag-

lega í fæðispenínga, ef þeir ferðast yfir leingra veg en eina mílu, meðan þeir gegna störfum eptir alþíngistilsk. 18. og 22. gr. (af vangá stendur hér einnig 23. gr.), auk ferðakostnaðar.

2. með 16 atkvæðum gegn 8: að þeir meðlimir kjörstjórnarinnar, sem ekki hafa kosníngarrètt, fái sömu borgun, meðan þeir ferðast til og frá þínginu, en þeir, sem kosníngarrètt hafa, einga borgun.
3. með 23 atkvæðum gegn 1: að allir meðlimir kjörstjórnarinnar fái í fæðispenínga 1 rbd. daglega, meðan á kjörþínginu stendur.
4. (Í álitsskjali þíngsins segir: „með sama atkvæðafjölda", en eptir útleggíngu þíngbókarinnar og þíngtíðindanna með 22 atkvæðum gegn 2): að kjörstjóri fái sanngjarna borgun fyrir fylgdarmann til og frá kjörþínginu, en aðstoðarmenn þeirra einga borgun í því skyni, nema þeir eigi að sækja yfir hættulega og torsótta leið.
5. með 22 atkvæðum gegn 2: að kjörstjórar skuli taka sèr aðstoðarmenn af þeim, sem næstir búa, þó svo, að tilskipunarinnar 16. gr. verði fullnægt.
6. með 18 atkvæðum gegn 6: sð kjörstjóri og aðstoðarmenn hans í Skaptafellssýslu, þegar þeir fara í þeim erindagjörðum, sem alþ. tilsk. 15. og 35. gr. (af vangá er sett 36. grein) ákveða, bæði fái 1 rbd. í fæðispenínga og sanngjarnan ferðakostnað.
7. með 13 atkvæðum gegn 11: að kjörstjórar annist eptirrit kjörskránna kauplaust, og
8. í einu hljóði: að hlutaðeigandi amtmenn yfirskoði nákvæmlega og samþykki alla reikanínga kjörstjórnenda, áður en þeir sèu borgaðir hlutaðeigendum.

Þegar kansellíið að konúngs boði bar þetta mál upp fyrir honum, gat það meðal annars þess, að reyndar væri ekkert athugavert við þá grundvallarreglu, sem alþíngið hefði sett, einsog stjórnarráðið, ásamt með rentukammerinu og konúngsfulltrúanum á alþíngi, yrði að álíta það rèttast eptir málavöxtum að fylgja uppástúngu þíngsins í öllum aðalatriðum, en þar eð vafi gæti verið á um einstöku atriði þess, þótti ráðlegast að fyrst væri frumvarp samið og svo lagt fyrir þíngið.

Við frumvarp það, sem þannig var samið, er þetta athugavert um einstakar greinir:

Um 1. grein. Í hana eru settir 1. 2. og 3. töluliður í uppástúngu alþíngis, einúngis með þeim orðamismun, sem kansellíinu þótti við eiga til þess að varna misskilníngi.

Einúngis þótti kansellíinu nokkuð athugavert í hinum 2. tölulið uppástúngunnar, þar sem segir, að þeir einir kjörstjórnarmenn, sem ekki eiga kosníngarrètt — en ekki hinir sem þann rètt eiga — skuli fá fæðispenínga og endurgjald fyrir ferðakostnað, þegar þeir fara til kjörþíngis. Eins og nefnilega slíkur greinarmunur eptir opnu brèfi 19. Okt. 1836 á sèr ekki stað um kjörstjórnarmenn í Danmörku, svo verður og atriði það, sem alþíngisnefndin bar fyrir sig: að hver og einn, sem kosníngarrètt ætti, ef til vildi gæti búizt við að fá ferðakostnað sinn borgaðan, ef þeir af kjörstjórunum, sem kosníngarrètt ættu, skyldu fá kostnaðinn endurgoldinn — að álítast ónóg, þar eð það er sá aðal-mismunur milli kjörstjórnarmanna, sem kosníngarrètt eiga og annara út í frá, sem einnig eiga þann rètt, að hinir fyrri (kjörstjórnendur) eru skyldir til að sækja kjörþíng, en hinum síðari er það á sjálfsvald sett, hvort þeir vilja koma þar eða ekki.

En þar eð lagagrein sú, sem þessu breytti, mundi auka, enn þótt lítið eitt, á útgjöld landsins, og þar eð þó má gjöra ráð fyrir því, að sèrhver sá, sem kosníngarrètt á og ekki er fatlaður, komi á kjörþíng, svo hefir þókt sem fara ætti að ráðum alþíngis, og er því í niðurlagi 1. greinar frumvarpsins orðum hagað að því skapi.

Það er gjört ráð fyrir, að ætlan alþíngis hafi verið sú, að kjörstjórnarmenn skyldu ekki hafa fæðispenínga, meðan þeir gegna störfum þeim, sem 18. og 22. gr. tilsk. 8. Marts 1843 ræðir um, nema því að eins að þeir þurfi að ferðast um leingri veg en 1 mílu, og þykir það eiga bezt við.

Um 2. grein. Hinn 6. töluliður í uppástúngu-skjali alþíngisins.

Það leiðir af 1. gr. frumvarpsins, að kjörstjóranum í Skaptafellssýslu og aðstoðarmönnum hans ber að fá fæðispenínga, og ferðakostnað endurgoldinn, þegar þeir þurfa að ferðast viðvíkjandi kjörþíngum þeim tveim, sem haldin eru í sýslu þessari, og meðan á þeim stendur (tilsk. 8. Marts 1843 15. gr.), og þókti því óþarft að geta þess með berum orðum. En hins vegar er í greininni, samkvæmt uppástúngu alþíngis, mönnum þessum veitt slíkt, sem til er mælzt og sem viðvíkur kjörstefn-

um þeim, er haldast skulu samkvæmt tilsk. 35. gr. til þess að leiða til lykta kosníngar, þó skal þess gætt, sem segir í 1. gr. um vegaleingd; og í niðurlagi greinarinnar er sú tilskipan gjörð, er miðar til að sporna við ofmiklum kjörþíngskostnaði í Skaptafellssýslu, sem leidt gæti af því, að fleiri aðstoðarmenn, en þyrftu, kæmu á kjörþíng það, sem talað er um í 35. gr., og þokast þá reglan að því, sem segir í 3. gr. opins brèfs 19. Okt. 1836.

Um 3. gr. Grein þessi hljóðar um það, sem stendur í hinu 4. atriði í alþíngis uppástúngunni, en minnist einnig á eitt atriði, sem yfir var hlaupið í álitsskjali þíngsins.

Svo var ástadt, að nefndin á alþíngi hafði stúngið upp á, og 17 atkvæði móti 7 höfðu fallizt á, að allir kjörstjórnarmenn mættu áskilja sèr endurgjald fyrir ferjutolla yfir sjó eða vötn. Í álitsskjali þíngsins var ekkert á það minnzt, en það hlýtur að vera komið af einhverju gáleysi.

Um 4. 5. og 6. gr. Greinir þessar eru samkvæmar 5. 7. og 8. atriðinu í alþíngis uppástúngunni, er styðjast við þá ástæðu, að verjast kostnaði sem verður, og ná nauðsýnlegri tilsjón með fæðispenínga- og ferðakostnaðar-reikníngum, og þykja, þegar á allt er litið, eiga vel við.

Frumvarp það, er samkvæmt því, sem nú var sagt, var samið til opins brèfs um kostnað þann, sem leiðir af kjöri alþíngismanna framvegis, samþykti konúngur allramildilegast 21. Apríl 1847, og verður það nú þann veg lagað lagt undir dóm alþíngismanna.

---

